# LAXDÆLA SAGA.

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR
**VALD. ÁSMUNDARSON.**



REYKJAVÍK.
KOSTNAÐARMAÐUR: *SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.*
1895.

# FORMÁLI.

Laxdæla saga hefir áðr komið út þrisvar á prenti, og eru það þó í rauninni að eins tvær útgáfur. Fyrst er sagan prentuð í Khöfn 1826 og gefin út af nefnd Árna Magnússonar. Fylgir þeirri útgáfu latnesk þýðing eftir Þorleif Guðmundsson Repp. Í annað sinn er sagan endrprentuð eftir þessari útgáfu á Akreyri 1867 með for mála eftir dr. Jón Þorkelsson rektor. Þar er einungis breytt stafsetningu og fáeinar athugasemdir settar neðanmáls. Þriðja sinn er Laxdæla prentuð í Kaupmannahöfn 1889—91 og gefin út af „Samfund til udgivelse af gammel nordisk literatur". Dr. Kr. Kålund hefir unnið að þeirri útgáfu og er hún mjög vönduð.

Hin fyrri útgáfa er gefin út eftir skinnbók þeirri í Safni Árna Magnússonar, nr. 132 fol., sem nefnd er Möðruvallabók, og er hennar nokkuð getið í formálanum fyrir Kormáks sögu. Möðruvallabók er talin rituð skömmu eftir 1300.

Jón Sigurðsson hefir ætlað að gefa út Laxdælu eftir Möðruvallabók með stafsetningu handritsins. Textinn er fullbúinn til prentunar, og er það handrit nú í safni hans á Landsbókasafninu nr. 125 fol.

Annað aðalhandrit sögunnar enn Möðruvallabók er

komið af Vatnshyrnu, skinnbók, sem brann í Kaupmannahöfn 1728. Afskriftir af því handriti hafa verið lítt kunnar þar til er Kålund gaf út Laxdælu. Hann hefir gefið söguna út eftir handriti, sem eflaust er afskrift af Vatnshyrnu. Þetta handrit er nr. 225, 4to., í safni íslenzka Bókmentafélagsins í Khöfn, og hefir Hákon kaupmaðr Bjarnason á Bíldudal gefið það félaginu. Þetta er mjög merkilegt handrit, enn á það vandar endann. — Annað handrit samkynja (ættað frá Vatnshyrnu) er og í sama safni, nr. 310, 4to., sem Sigmundr Mattíasson á Seyðisfirði (nú í Ameríku) hefir gefið félaginu. Þar er endir sögunnar óskaddr, og er þannig til heil afskrift af Laxdælu úr Vatnshyrnu. Þetta virðist einnig vera gott handrit. Dr. Kålund hefir þó ekki notað það við útgáfu sína af Laxdælu, af því að hann vissi ekki af því fyrr enn um seinan.

Að þessi tvö pappírshandrit af Laxdælu hafa geymzt í eign einstakra manna hér á landi fram á vora daga, sannar bæði, að menn glata ekki öllu slíku hér, svo að nauðsyn beri til að sópa því öllu úr landi og hitt, að merkileg pappírshandrit af fornritum geta enn dulizt hér á landi.

Auk þessara hinna helztu handrita af Laxdælu eru til ýms brot af henni á skinni erlendis og mörg pappírshandrit. Þau handrit af Laxdælu, sem eru hér á Landsbókasafninu, eru, að sögn Pálma Pálssonar, aðstoðarbókvarðar, öll komin af Möðruvallabók, og sama er að segja um þau tvö handrit af sögunni, sem eru í safni Bókmentafélagsins í Reykjavík (A 9 a (= B III 3 a) og B 39).

Er annað þeirra skrifað af Einari Bjarnasyni á Mælifelli, enn hitt mun vera frá 18. öld.

Elzta brot af Laxdælu er í Safni Á. M. nr. 162 $D_2$, eitt skinnblað, sem talið er ritað á síðari hlut 13. aldar. Annað elzta brot af Laxdælu er í 162 $D_1$ í sama safni, og er það eldra enn Möðruvallabók (ritað um 1300), enda ber að mestu saman við hana.

Líkindi eru til, að handrit það sem $D_2$ er úr sé nákomnast elzta frumriti Laxdælu, enn öll þau handrit, sem talin eru skyld $D_2$, eru annaðhvort svo breytt eða óheil, að sagan verðr ekki gefin út eftir þeim.

Stafsetningin á $D_2$ er mjög fornleg. Þar er gerðr greinarmunr á *æ* og *œ*, sagnendingin *st* er þar *sk*, *ð* er ritað í staðinn fyrir *d*, t. d. í *fjölði* og *sœmð*, *-legr* er ritað í staðinn fyrir *-ligr* (sem annars er algengt í hinum yngri fornritum, enn er nú aftr orðið *-legr)* o. s. frv.

Sú útgáfa, sem hér kemr af Laxdælu, er að mestu prentuð eftir Kålunds útgáfu, nema orðum hefir verið breytt á stöku stað, einkum þar sem álitið var, að handrita orðamunrinn neðanmáls væri réttari enn textinn.

Stuttr kafli í enda sögunnar, sem Kålund hefir tilfært aftan við formála útgáfu sinnar eftir hdr. nr. 310 4to í safni ísl. Bókmentafél. í Khöfn, hefir ekki verið tekinn til greina við þessa útgáfu, úr því ekki var kostr á að nota alt handritið, sem að líkindum er þess vert, að því væri gaumr gefinn. Þess má þó geta, að þar er orðamunr nokkur. Bolli segir við Þorstein (á bls. 260 í þessari útgáfu): *„ek gef mér lítit um slíka hluti, man ok eigi torveldi at ryðja þessu þegar í dóm kemr. Þat mun*

*ok sannara, sagði Þorsteinn, at hafa eigi hér þessa gjöf við, því at ek munda hafa gefit þér hrossin, þó at eigi hefði þetta í orðit . . .". „Þá kýstu þat", sagði Þorsteinn, „er öllum oss gegnir verr, því at þótt Helgi sé lítilsverðr, þá er hann mér þó hendilangr".*

Aldr Laxdæla sögu má nokkuð ráða af D2, það er að segja, hve snemma sagan hefir verið færð í letr, enn glöggvast sést það á ýmsu í sögunni sjálfri, svo og því, að Eyrbyggja saga vitnar til Laxdæla sögu, enn Eyrbyggja saga er talin rituð um 1250. Í 78. kap. Laxdælu (á 243. bls. í þessari útgáfu) er nefndr Ketill Hermundarson, „er ábóti var að Helgafelli", enn Ketill ábóti dó 1220. — Sagan er því fyrst skrásett á árunum milli 1220 og 1250. Höfundrinn hefir að öllum líkindum verið prestr við Breiðafjörð sunnanfram eða munkr á Helgafelli.

Því verðr ekki neitað, að frásögnin í Laxdælu er ekki allstaðar áreiðanleg í sögulegu tilliti, og hafa því þeir menn, sem á síðari árum hafa risið upp erlendis til að gera sögur vorar tortryggilegar, véfengt hana í mörgum atriðum. Frásagnirnar um Ketil flatnef, hirðmensku Höskuldar, Hrúts og Óláfs pá, móðerni Óláfs pá og ferð hans til Írlands, vist Kjartans með Óláfi konungi Tryggvasyni og vinátta hans og Ingibjargar konungs systur, þykir þeim alt ósennilegt. Enn engin gild rök eru færð gegn þessum atriðum. Þá þykja þeir Hrapparnir grunsamlegir menn, einkanlega þar sem hinn þriðji Hrappr er í Njálu, og þeir eru allir lyndislíkir, enn ekki er óeðlilegt, að menn, sem bera sama nafn, geti oft verið

líkir, með því að þeir eru oft af sömu ætt. Þá þykja sumar frásagnirnar um Þorkel Eyjólfsson miðr trúlegar, einkanlega það, að hann hafi ætlað að byggja svo stóra kirkju að Helgafelli sem kirkjan var í Niðarósi, og er það fært á móti, að kirkjuviðrinn hafi ekki getað verið svo mikill, þar sem sagan segir, að viðrinn hafi verið dreginn norðan „meir enn á tuttugu hestum“ (þrjátíu hestum“ hafa sum hdr., sbr. hinar eldri útg. af Laxdælu, og er það tekið upp í þessa útgáfu). Enn þótt hestarnir hefði ekki verið yfir 20, hefði mátt draga á þeim mikla viðu, þar sem Þorkell var að flutningunum frá því skömmu eftir jól og fram á langaföstu, enda er líklegt, að sleðar hafi að einhverju leyti verið notaðir til að aka viðunum. Það þykir ennfremr ótrúlegt, að Óláfr konungr hafi verið svo stórgjöfull við Þorkel sem sagan segir, að hann hafi gefið honum „tíu tigi marka brends silfrs“ (þ. e. um 30000 kr. í vorum peningum). Enn sagan fullyrðir heldr ekkert um það, segir það einungis „alsagt“.

Eins og þegar er sagt, hafa flestar þessar rengingar við lítil rök að styðjast. Öðru máli er að gegna um það, sem sagan segir frá Bolla Bollasyni. Þar er auðsjáanlega ranghermt og ýkt. Eftir er Bolli Bollason kemr til sögunnar, gerist sagan miklu óáreiðilegri enn áðr, og þá fer tímatalið mjög út um þúfur.

Upphaflega hefir Laxdæla saga ekki verið lengri enn til enda 78. kap., enda er svo í handritum þeim sem næst standa hinni elztu gerð sögunnar, sem enda kapítulann með þessum orðum: „Ok lýkr þar nú sögunni“. Bolla

þáttr, sem hefst með 79. kap., er síðar tilbúinn, enn þó ekki miklu yngri enn sagan. Þessi þáttr er alveg óáreiðilegr; að minsta kosti vóru þeir menn, sem við hann koma, fyrir löngu dauðir, þegar Bolli Bollason var uppi. Höfundrinn hefir verið norðlenzkr og líklega átt heima í Svarfaðardal eða þar í grend.

Frásögn Laxdælu um utanför Hrúts er blönduð málum. þannig, að það sem Laxdæla segir um dvöl hans í Noregi, á við hina fyrri dvöl hans þar meðan hann var ungr (sbr. Njálu). Enn frásagnirnar um Kjartan er lítil ástæða til að rengja, þótt söguritarinn dragi ef til vill nokkuð hans taum, þar sem Óláfs sögu Tryggvasonar ber saman við frásögn Laxdælu.

Í nokkurum pappírshandritum, sem virðast skyld hinu elzta handritsbroti af Laxdælu, er frásögnin um sverðstuldinn í Hjarðarholti nokkuð frábrugðin hinni venjulegu sögu. Þar stendr svo í einu hdr. (og fleirum með nokkurum orðamun):

*Óláfr mælti: „Hér skulu vit fara kyrt at þessu máli ok þetta ekki í háraða hafa, svá hér verði beinaspjöll at, því at fáir munu hafa verit í þessu illræði, enn göngum nú ok lítum eftirboðsmenn, og ef þessi maðr verðr á vegi þínum eða okkrum, er sverðit hefir gert þjófstolit, þá munu vit finna mikinn hvimt á honum, enn ef nökkurir hafa skotizt í burt, þeir er setit hafa at boði váru um hríð, þá gera þeir ærit ljósa greiðslu um þetta mál“. Síðan líta þeir feðgar yfir liðit ok sakna þriggja manna, Þórólfs Ósvífrssonar ok sona Þórhöllu. Þá lét Óláfr ríða eftir þeim; þar til valðist Beinir hinn sterki við*

*fimta mann. Snjór var fallinn, svá at sá til spora. Ok þá er þeir Beinir koma inn at Fáskrúð* (önnur hdr. hafa *Ljáskurð*), *sá þeir hvar þeir Þórólfr fóru; þeir sjá þá ok eftirreiðina. Þeir Þórólfr vóru þá komnir inn til Hálsaklifs* (eða *Hálgaklifs*, önnur hdr.: *Hagaklifs*) *ok snern þá inn í skóginn. Þeir Beinir sóttu þá fast eftir; bar þat eitt þá við, at eigi varð fundr þeira, at keldótt var at ríða ok skógótt; enn þeir Þórólfr höfðu þá hleypt hestana ok tako þá á fæti undan. Beinir fann sverðit konungsnaut í keldu ofan bert. Þeir sneru heim eftir þat. Tók Kjartan við sverðinu".*

Þessi frásögn er að sumu leyti sennilegri enn hin venjulega frásögn, enda er hún fornleg, og að hún sé gömul má ráða af því, að hún kemr fram í hinu færeyska kvæði „Kjartanstættir", sem hlýtr að vera mjög gamalt. Enda benda orðin í Fornmannasögum II 226 á þessa frásögn, þar sem stendr „er eftir þeim var riðit". Það eitt er athugavert við þessa frásögn, að hér er Beinir hinn sterki nefndr í stað Áns hvíta.

Dr. Kålund gerir lítið úr áreiðileik Laxdælu í sögulegu tilliti, enn virðist fara of langt í sumum atriðum. Þannig er fráleitt að segja, að það sé „romantisk udsmykning", sem „aldrig har hart noget tilsvarende på Island", að Guðrún Ósvífrsdóttir hafi átt laukagarð. Laukagarða er víða getið hér á landi í fornöld, og á Hólum í Hjaltadal er nefndr laukagarðr fram á daga Jóns biskups Arasonar. Sæmundr Eyjólfsson heldr, að ‚laukagarðr' hafi verið alment nafn á matjurtagarði (Búnaðarrit VII 9.).

Tímatals villur eru talsverðar í Laxdælu, og kemr

tímatal hennar víða ekki heim við önnur sögurit, svo sem Noregs konunga sögur og Ísl. Annála. Einkum er það skeikult, sem snertir viðburði og menn í öðrum löndum. Þó kemr Laxdælu saman við fornensk eða írsk fornrit þannig, að þau geta manna, sem Laxdæla nefnir, svo sem Þorsteins rauðs (Oistin), sem fellr um 875 o. fl. Mýrkjartans nafnið er írskt konunganafn (Muircertach). Einn af þeim konungum, er báru þetta nafn, var höfuðkonungr á tímabilinu 926—943, enn aðrir eru smákonungar, er sumir vóru uppi um sama leyti. Einn af þeim var drepinn 963. Ekkert er á móti því, að Melkorka gæti verið dóttir einhvers af þessum konungum.

Í tímatals ágrip það sem stendr hér aftan við formálann eru þau ártöl sett, sem líklegust þykja, enn áreiðanleg má ekki telja nema sum af þeim. Einkum er tímatalið óáreiðanlegt í síðara hlut sögunnar, eftir er Bolli Bollason kemr til sögunnar, enda er óvíst nær hann er fæddr. Mun hann vera fæddr fyrr enn í sögunni segir. Víg Helga Harðbeinssonar og Þorgils Höllusonar hljóta að hafa farið fram fyrr enn sagan segir, enda er ólíklegt að hefndin eftir Bolla hafi dregizt mörg ár. Sama er að segja um gifting Þorkels Eyjólfssonar. Utanför Þorkels Eyjólfssonar og Gellis sonar hans hefir og verið nokkuru fyrr enn sagan segir.

Enn eins og áðr er sagt, koma Fornmannasögur víða allvel heim við Laxdælu, svo sem frásagnirnar um þá Kjartan og Bolla. Bolla Þorleikssyni er enda lízt greinilegar í Fornmannasögum enn í Laxdælu. Í Fornmannasögum stendr:

„Bolli var mikill maðr vexti ok allstyrkr, fríðr sýnum, réttnefjaðr ok heldr langleitr, þykkvarraðr ok þó ekki munnljótr, grunneygðr ok þó ekki opineygðr, ok lágu fagrt augun. Ljósjarpr var hann á hár; manna hermannligastr ok hinn mesti skartsmaðr“.

Af því að efnið í Laxdælu er svo skáldlegt, hefir það orðið yrkisefni útlendra skálda. Hið elzta kvæði út af Laxdælu eru Kjartansþættir (Kjartanstættir), gamalt færeyskt kvæði, sem prentað er í „Færöiske kvæder“, sem út eru gefin af V. U. Hammershaimb. Þá má og nefna sjónleik eftir Oehlenschlæger „Kjartan og Gudrún“ og söguljóð eftir hið nafnkunna enska skáld William Morris „The Lovers of Gudrún“ o. fl. Loks hefir Brynjólfr Jónsson frá Minnanúpi ort söguljóðin „Guðrún Ósvífrsdóttir“, sem prentuð eru í Reykjavík 1892. — Rímur af Laxdæla sögu hefir ort séra Eiríkr Bjarnason, síðast prestr á Hvalsnesi († 1791), 50 að tölu, og er handrit af þeim í safni Jóns Sigurðssonar á Landsbókasafninu, nr. 46 4to. — Í rímum þessum, sem séra Eiríkr hefir ort í elli sinni á Seltjarnarnesi, er frásögnin lík og í þeim handritaflokki Laxdælu, sem einna er elztr að kyni. Þar er líka sögnin um sverðstuldinn í Hjarðarholti samkvæm þeirri, er tilfærð er hér að framan.

Höfundr Laxdælu hefir verið ágætr söguritari að mörgu leyti, og eru ýmsir kaflar í sögunni mæta vel ritaðir. Lyndiseinkunnir kvennanna, Guðrúnar Ósvífrsdóttur, Hrefnu, Þorgerðar Egilsdóttur og Þuríðar Óláfsdóttur eru skýrlega sýndar. Mörg af samtölunum eru ágætlega rituð, svo sem samtal Guðrúnar við Snorra Sturluson um

hefndina eftir Bolla og samtal hennar við Þorgils Höllu son um sama efni. Þá eru og mannlýsingarnar skemtilegar, svo sem lýsingarnar á mönnum þeim er sóttu Helga Harðbeinsson, þótt þær lýsingar sé ef til vill ekki fyllilega samkvæmar þeim tíma, er sagan gerðist á.

Jón Sigurðsson heldr, að höfundr Laxdælu gæti verið Brandr prior hinn fróði, eða Guðmundr prestr Brandsson í Hjarðarholti († 1151), sem var mjög merkr maðr og í biskupskjörum með Klængi. Sá Guðmundr var sonr Brands Gísla sonar, Eyjólfs sonar, Þorkels sonar Alviðrukappa, Þórðar sonar, Haralds sonar hárfagra? (sbr. Landnámu II, 27). — Þó þykir Jóni Sigurðssyni einna líklegast að sagan í þeirri mynd, sem hún nú er í, væri samin af Torfa presti Guðmundarsyni, sem var prestr í Hjarðarholti um 1230. Það kemr líka bezt heim við þann tíma, er sagan er fyrst í letr færð.

Gunnars þáttr Þiðranda bana hefir áðr verið gefinn út með Laxdælu; fylgir bæði í Kaupmannahafnarútgáfunni fyrri og í Akreyrarútgáfunni, enn ekki í útgáfu Kalunds. Með því að þessi þáttr er alveg sérstakr og aðalviðburðirnir í honum fara fram í Austfirðingafjórðungi, langt frá þeim stöðum, er Laxdæla saga gerðist á, var ekki ástæða til að láta hann fylgja sögunni, þótt Bolla þáttr sé hafðr með, af því hann fylgir sögunni í flestum handritum.

Annars er svo til ætlazt, að allir slíkir ‚þættir' komi út í sérstökum bindum af þessum Íslendingasögum, og er því von á þeim, eða nokkurum af þeim, áðr mjög langt líðr.

Staða-rannsóknir Sigurðar Vigfússonar, sem lesa má um á við og dreif í Árbók Fornleifafélagsins, koma allvel heim að því er kemr til Laxdæla sögu. Staðalýsingarnar og örnefnin standa heima við það sem nú er, nema hvað skógarnir, sem sagan talar um, eru nú að mestu eyddir, enda hafa þegar verið eyddir í fornöld. Í Dölum var og rauðablástr mikill í fornöld, sem fundizt hafa menjar af á þessari öld, svo sem rauðablástrssmiðjan í Ljárskógum, sem lýst er í Árbók fornleifafélagsins, og hefir það eitt með öðru spilt skógunum.

---

# TÍMATAL.

| | |
|---|---|
| Unnr djúpúðga kemr til Íslands | um 892. |
| Unnr djúpuðga deyr | — 900. |
| Fæddr Óláfr pái | — 938. |
| Ólafr pái fer í fóstr að Goddastöðum 7 vetra | — 945. |
| Druknun Þorsteins surts | 950—60. |
| Útkoma Hrúts | um 945. |
| Melkorka giftist Þorbirni skrjúp. Utanferð Óláfs pá | — 955. |
| Óláfr pái heimsækir Harald konung gráfeld og Gunnhildi. Fer til Írlands og finnr Mýrkjartan konung afa sinn og fer síðan til Noregs | 955—57. |
| Óláfr pái er með Noregs konungi um vetrinn og fer um vorið til Íslands | 957—58. |
| Óláfr pái giftist Þorgerði | um 959 |
| Reistr bær í Hjarðarholti | — 960. |
| Höskuldr Dala-Kollsson deyr | — 972. |
| Fæddr Kjartan Óláfsson | — 970. |

Óláfr pái fer utan í annað sinn . um 975.
Fæddr Þorkell Eyjólfsson . . . . . — 979.
Utanför Kjartans og Bolla . . . . 996--97.
Kjartan dvelr í Noregi. Útkoma
Bolla með Gizuri og Hjalta . . 997 --99.
Kristni lögtekin á alþingi . . . . 1000.
Útkoma Kjartans . . . . . . . . 1001·
Haustboð í Hjarðarholti. Gripastuldr . 1002.
Víg Kjartans Óláfssonar . . . . . 1003.
Fæddr Þorleikr Bollason . . . 1001—1003.
Dauði Óláfs pá . . . . . . . . 1006.
Víg Bolla Þorleikssonar . . . . . 1007.
Guðrún Ósvífrsdóttir flytr að Helga-
felli . . . . . . . . . . . 1008.
Víg Helga Harðbeinssonar . . . fyrir 1010?
Dauði Ósvifrs og Gests Oddleifssonar — 1010?
Víg Þorgils Höllusonar . . . . — 1010?
Guðrún Ósvífrsdóttir giftist Þorkeli
Eyjólfssyni . . . . . . . . . — 1010?
(Utanför Þorkels Eyjólfssonar).
Druknan Þorkels Eyjólfssonar . . . 1026.
Útkoma Bolla Bollasonar . . . . . 1030.
Dauði Snorra goða . . . . . . . 1031.
Dauði Gellis Þorkelssonar . . . . 1073.

Eins og áðr er sagt, er það víst, að víg Helga Harðbeinssonar, víg Þorgils Höllusonar og gifting Guðrúnar Ósvífrsdóttur hefir verið fyrr enn í sögunni segir, og mikil líkindi eru

til, að Guðrún hafi giftzt Þorkatli Eyjólfssyni 1008, eða sama árið og hún fluttist að Helgafelli og hafi þau þá farið að búa þar. Væri nú Gellir sonr þeirra fæddr 1008 eða 1009, þá kemr það vel heim, að hann væri 12 ára, er Þorkell Eyjólfsson fór til Noregs með hann, og að það hafi verið 1020, því að þá var Óláfr konungr í Niðarósi um vetrinn, og enn fremr kemr það heim við það sem annálar segja, að Gellir dæi hálfsjötugr 1073.



# Laxdæla saga.

Ketill flatnefr hét maðr, son Bjarnar bunu. Hann var hersir ríkr í Noregi ok kynstórr. Hann bjó í Raumsdal í Raumsdælafylki; þat er milli Sunnmærar ok Norðmærar. Ketill flatnefr átti Yngvildi, dóttur Ketils veðrs, ágæts manns; þeira börn váru fimm; hét einn Björn enn austræni, annarr Helgi bjólan. Þórunn hyrna hét dóttir Ketils, er átti Helgi hinn magri son Eyvindar austmanns ok Rafórtu dóttur Kjarvals Írakonungs. Unnr en djúpúðga var enn dóttir Ketils, er átti Óláfr hvíti Ingjaldsson, Fróðasonar ens frækna, er Svertlingar drápu. Jórunn mannvitsbrekka hét enn dóttir Ketils. Hon var móðir Ketils hins fiskna, er nam land í Kirkjubæ. Hans son var Ásbjörn, faðir Þorsteins, föður Surts, föður Sighvats lögsögumanns.

**2.** Á ofanverðum dögum Ketils hófst ríki Haralds konungs hins hárfagra, svá at engi

fylkiskonungr þreifst í landinu né annat stórmenni, nema hann réði einn nafnbótum þeira. Enn er Ketill fregn þetta, at Haraldr konungr hafði honum slíkan kost ætlat sem öðrum ríkismönnum at hafa frændr óbætta, enn gerr þó at leigumanni sjálfr, — síðan stefnir hann þing við frændr sína, og hóf svá mál sitt: „Kunnig hafa yðr verit skifti vár Haralds konungs, ok þarf eigi þau at inna, því at oss berr meiri nauðsyn til að ráða um vandkvæði þau, er vér eigum fyrir höndum. Sannspurðan hefi ek fjandskap Haralds konungs til vár. Sýnist mér svá, at vér munim eigi þaðan trausts bíða; lízt mér svá sem oss sé tveir kostir gervir, at flýja land eða vera drepnir hverr í sínu rúmi; enn ek ok þess fúsari at hafa slíkan dauðdaga sem frændr mínir, enn eigi vil ek yðr leiða í svá mikil vandkvæði með einræði mínu, því at mér er kunnigt skaplyndi frænda minna ok vina, at þér vilit eigi við oss skiljast, þótt mannraun sé í nökkur at fylgja mér“. Björn son Ketils svarar: „Skjótt mun ek birta minn vilja. Ek vil gera að dæmum göfigra manna ok flýja land þetta; þykkjumst ek ekki af því vaxa, þótt ek bíða heiman þræla Haralds konungs, ok elti þeir oss af eignum várum eða þiggja af þeim dauða með öllu“. At þessu var gerr góðr rómr ok þótti drengilega talat. Þetta ráð var bundit, at þeir mundu af landi fara, því at synir Ketils

fýstu þessa mjök, enn engi mælti á móti. Björn ok Helgi vildu til Íslands fara, því at þeir þóttust þaðan mart fýsilegt fregit hafa; sögðu þar landkosti góða, ok þurfti ekki fé at kaupa; kölluðu vera hvalrétt mikinn ok laxveiðar, enn fiskastöð öllum missarum. Ketill svarar: „Í þá veiðistöð kem ek aldregi á gamals aldri“. Sagði Ketill þá sína ætlan, at hann var fúsari vestr um haf; kvaðst þar virðast mannlífi gott. Váru honum þar víða lönd kunnig, því at hann hafði þar víða herjat.

**3.** Eftir þetta hafði Ketill boð ágætt. Þá gifti hann Þórunni hyrnu dóttur sína Helga hinum magra, sem fyrr var ritat. Eftir þat býr Ketill ferð sína ór landi vestr um haf. Unnr dóttir hans fór með honum ok margir aðrir frændr hans. Synir Ketils heldu þat sama sumar til Íslands ok Helgi magri mágr þeira. Björn Ketilsson kom skipi sínu vestr í Breiðafjörð, ok sigldi inn eftir firðinum ok nær hinu syðra landinu, þar til er fjörðr skarst inn í landit; enn fjall hátt stóð á nesinu fyrir innan fjörðinn. Enn ey lá skamt frá landinu. Björn segir, at þeir mundu eiga þar dvöl nökkura. Björn gekk á land upp með nökkura menn, ok reikaði fram með sjónum; var þar skamt í milli fjalls ok fjöru; honum þótti þar byggilegt. Þar fann Björn reknar öndvegissúlur sínar í einni vík; þótti þeim þá ávísat um bústaðinn. Síðan tók Björn sér þar land alt á millum Stafár ok Hraun-

fjarðar, ok bjó þar er síðan heitir í Bjarnarhöfn. Hann var kallaðr Björn enn austræni. Hans kona var Gjaflaug, dóttir Kjallaks ens gamla; þeira synir váru þeir Óttarr ok Kjallakr. Hans son var Þorgrímr, faðir Víga-Styrs og Vermundar, enn dóttir Kjallaks hét Helga; hana átti Vestarr á Eyri, son Þórólfs blöðruskalla, er nam Eyri. Þeira son var Þorlákr faðir Steinþórs á Eyri. Helgi bjólan kom skipi sínu fyrir sunnan land, ok nam Kjalarnes alt á milli Kollafjarðar ok Hvalfjarðar, ok bjó at Esjubergi til elli. Helgi hinn magri kom skipi sínu fyrir norðan land ok nam Eyjafjörð allan á milli Sigluness ok Reynisness ok bjó í Kristnesi. Frá þeim Helga ok Þórunni er komit Eyfirðingakyn.

4. Ketill flatnefr kom skipi sínu við Skotland ok fekk góðar viðtökur af tignum mönnum, því að hann var frægr maðr ok stórættaðr, ok buðu honum þann ráðakost þar, sem hann vildi hafa. Ketill staðfestist þar ok annat frændlið hans nema Þorsteinn dótturson hans. Hann lagðist þegar í hernað ok herjaði víða um Skotland ok fekk jafnan sigr. Síðan gerði hann sætt við Skota, og eignaðist hálft Skotland, ok varð konungr yfir. Hann átti Þuríði Eyvindardóttur, systur Helga ens magra. Skotar heldu eigi lengi sættina, því at þeir sviku hann í trygð. Svá segir Ari Þorgilsson enn fróði um

líflát Þorsteins, at hann felli á Katanesi. Unnr djúpúðga var á Katanesi, er Þorsteinn fell son hennar; ok er hon frá þat. at Þorsteinn var látinn, enn faðir hennar andaðr, þá þóttist hon þar enga uppreist fá mundu. Eftir þat lætr hon gera knörr í skógi á laun; ok er skipit var algert, þá bjó hon skipit ok hafði auð fjár. Hon hafði í brott með sér alt frændlið sitt þat er á lífi var, ok þykkjast menn varla dæmi til finna, at einn kvenmaðr hafi komizt í brott ór þvílíkum ófriði með jafnmiklu fé ok föruneyti. Má af því marka, at hon var mikit afbragð annarra kvenna. Unnr hafði ok með sér marga þá menn, er mikils váru verðir ok stórættaðir. Maðr er nefndr Kollr, er einna var mest verðr af föruneyti Unnar: kom mest til þess ætt hans; hann var hersir at nafni. Sá maðr var ok í ferð með Unni, er Hörðr hét; hann var enn stórættaðr maðr ok mikils verðr. Unnr heldr skipinu í Orkneyjar, þegar er hon var búin; þar dvaldist hon litla hríð. Þar gifti hon Gró, dóttur Þorsteins rauðs; hon var móðir Greilaðar, er Þorfinnr jarl átti, son Torf-Einars jarls, sonar Rögnvalds Mæra jarls; þeira son var Hlöðvér, faðir Sigurðar jarls, föður Þorfinns jarls, ok er þaðan komit kyn allra Orkneyinga jarla. Eftir þat helt Unnr skipi sinu til Færeyja, ok átti þar enn nökkura dvöl; þar gifti hon aðra dóttur Þorsteins; sú hét Ólof; þaðan er komit kyn

hit ágæzta í því landi, er þeir kalla Götu-skeggja.

5. Nú býst Unnr í brott ór Færeyjum, ok lýsir því fyrir skipverjum sínum, at hon ætlar til Íslands; hon hefir með sér Óláf feilan son Þorsteins rauðs, ok systur hans þær er ógiftar váru. Eftir þat lætr hon í haf, ok verðr vel reiðfara, ok kemr skipi sínu fyrir sunnan land á Vikrarskeið. Þar brjóta þau skipit í spán. Menn allir heldust ok fé. Síðan fór hon á fund Helga bróður síns með tuttugu menn. Ok er hon kom þar, gekk hann á mót henni ok bauð henni til sín við tíunda mann. Hon svarar reiðulega ok kvaðst eigi vitat hafa at hann væri slíkt lítilmenni, ok ferr í brott. Ætlar hon nú at sækja heim Björn bróður sinn í Breiðafjörð; ok er hann spyrr til ferða hennar, þá ferr hann í mót henni með fjölmenni, ok fagnar henni vel, ok bauð henni til sín með öllu liði sínu, því at hann kunni veglyndi systur sinnar. Þat líkaði henni allvel, ok þakkaði honum stórmensku sína. Hon var þar um vetrinn, ok var henni veitt it stórmannligsta, því at efni váru gnóg enn eigi fé sparat. Ok um várit fór hon yfir Breiðafjörð ok kom at nesi nökkuru, ok átu þar dagverð; þar er síðan kallat Dögurðarnes, ok gengr þar af Meðalfellsströnd. Síðan helt hon skipi sínu inn eftir Hvammsfirði ok kom þar at nesi einu ok átti

þar dvöl nökkura. Þar tapaði Unnr kambi sínum; þar heitir síðan Kambsnes. Eftir þat fór hon um alla Breiðafjarðardali, ok nam sér lönd svo víða sem hon vildi. Síðan helt Unnr skipi sínu í fjarðarbotninn; váru þar reknar á land öndvegissúlur hennar. Þótti henni þá auðvitað, hvar hon skyldi bústað taka. Hon lætr bæ reisa þar er síðan heitir í Hvammi ok bygði þar. Þat sama vár, er Unnr setti bú saman í Hvammi, fekk Kollr Þorgerðar dóttur Þorsteins rauðs. Þat boð kostaði Unnr; lætr hon Þorgerði heiman fylgja Laxárdal allan, ok setti hann þar bú saman fyrir sunnan Laxá. Var Kollr hinn mesti tilkvæmdamaðr. Þeira son var Höskuldr.

**6.** Eftir þat gefr Unnr fleirum mönnum af landnámi sínu. Herði gaf hún Hörðadal allan út til Skrámuhlaupsár. Hann bjó á Hörðabólstað ok var mikill merkismaðr ok kynsæll. Hans son var Ásbjörn auðgi, er bjó í Örnólfsdal á Ásbjarnarstöðum; hann átti Þorbjörgu dóttur Miðfjarðar-Skeggja. Þeira dóttir var Ingibjörg, er átti Illugi enn svarti; þeira synir váru þeir Hermundr ok Gunnlaugr ormstunga; þat er kallat Gilsbekkingakyn. Unnr mælti við sína menn: „Nú skulu þér taka ömbun verka yðvarra; skortir oss nú ok eigi föng til at gjalda yðr starf yðvart ok góðvilja. Enn yðr er þat kunnigt, at ek hefi frelsi gefit þeim

manni, er Erpr heitir, syni Melduns jarls; fór þat fjarri um svá stórættaðan mann, at ek vilda at hann bæri þrælsnafn". Síðan gaf Unnr honum Sauðafellslönd á millum Tunguár ok Miðár. Hans börn váru þau Ormr ok Ásgeirr, Gunnbjörn ok Halldís, er átti Dala-Álfr. Sökkólfi gaf hon Sökkólfsdal ok bjó hann þar til elli. Hundi hét lausingi hennar; hann var skozkr at ætt; honum gaf hon Hundadal. Ósk hét hin fjórða dóttir Þorsteins rauðs; hon var móðir Þorsteins surts ens spaka, er fann sumarauka. Þórhildr hét en fimta dóttir Þorsteins. Hon var móðir Álfs í Dölum; telr mart manna kyn sitt til hans. Hans dóttir var Þorgerðr kona Ara Mássonar á Reykjanesi, Atla sonar, Úlfs sonar ens skjálga ok Bjargar Eyvindardóttur, systur Helga ens magra; þaðan eru komnir Reyknesingar. Vigdís hét en sétta dóttir Þorsteins rauðs ok þaðan eru komnir Höfðamenn í Eyjafirði.

7. Óláfr feilan var yngstr barna Þorsteins. Hann var mikill maðr ok sterkr, fríðr sýnum ok atgervimaðr enn mesti; hann mat Unnr um fram alla menn, ok lýsti því fyrir mönnum, at hon ætlaði Óláfi allar eignir eftir sinn dag í Hvammi. Unnr gerðist þá mjök ellimóð; hon kallaði til sín Óláf feilan ok mælti: „Þat hefir mér komit í hug, frændi, at þú munir staðfesta ráð þitt ok kvænast". Óláfr tók því vel ok

kveðst hennar forsjá hlíta mundu um þat mál. Unnr mælti: „Svá hefi ek helzt ætlat, at boð þitt muni vera at áliðnu sumri þessu, því at þá er auðveldast at afla allra tilfanga, því at þat er nær minni ætlan, at vinir várir muni þá mjök fjölmenna hingat, því at ek ætla þessa veizlu síðasta at búa". Óláfr svarar: „Þetta er vel mælt; enn þeirar einnar konu ætla ek at fá, at sú ræni þik hvárki fé né ráðum". Þat sama haust fekk Óláfr feilan Álfdísar; þeira boð var í Hvammi. Unnr hafði mikinn fékostnað fyrir veizlunni, því at hon lét víða bjóða tignum mönnum ór öðrum sveitum. Hon bauð Birni bróður sínum ok Helga bróður sínum bjólan; kómu þeir fjölmennir. Þar kom Dala-Kollr mágr hennar ok Hörðr ór Hörðadal ok mart annat stórmenni. Boðit var allfjölment, ok kom þó hvergi nærri svá mart manna sem Unnr hafði boðit fyrir því at Eyfirðingar áttu farveg langan. Elli sótti þá fast at Unni, svá at hon reis ekki upp fyrir miðjan dag, enn hon lagðist snemma niðr. Engum manni leyfði hon at sækja ráð at sér þess á milli er hon fór at sofa á kveldit ok hins er hon var klædd; reiðulega svarar hon, ef nökkur spurði at mætti hennar. Þann dag svaf Unnr í lengra lagi, enn þó var hon á fótum, er boðsmenn kómu, ok gekk á móti þeim ok fagnaði frændum sínum ok vinum með sæmd; kvað þá ástsamlega gert hafa, er

þeir höfðu sótt þangat langan veg — „nefni ek til þess Björn ok Helga, ok öllum vil ek yðr þökk kunna, er hér eruð komnir“. Síðan gekk Unnr inn í skála ok sveit mikil með henni. Ok er skálinn var alskipaðr fanst mönnum mikit um, hversu veizla sú var skörulег. Þá mælti Unnr: „Björn kveð ek at þessu bróður minn ok Helga ok aðra frændr mína ok vini; bólstað þenna með slíkum búnaði, sem nú megu þér sjá, sel ek í hendr Óláfi frænda mínum til eignar ok forráða“. Eftir þat stóð Unnr upp ok kvaðst ganga mundu til þeirar skemmu, sem hon var vön at sofa í; bað at þat skyldi hverr hafa at skemtan, sem þá væri næst skapi, enn mungát skyldi skemta alþýðunni. Svá segja menn, at Unnr hafi verit bæði há ok þrekleg; hon gekk hart utar eftir skálanum; fundust mönnum orð um, at konan var enn virðuleg. Drukku menn um kveldit, þangat til at mönnum þótti mál at sofa. Enn um daginn eftir gekk Óláfr feilan til svefnstofu Unnar frændkonu sinnar; ok er hann kom í stofuna, sat Unnr upp við hægindin. Hon var þá önduð. Gekk Óláfr eftir þat í skála ok sagði tíðendi þessi. Þótti mönnum mikils um vert, hversu Unnr hafði haldit virðingu sinni til dauðadags; var nú drukkit alt saman brullaup Óláfs ok erfi Unnar. Ok enn síðasta dag boðsins var Unnr flutt til haugs þess er henni var búinn. Hon

var lögð í skip í hauginum, ok mikit fé var í haug lagt með henni; var eftir þat aftr kastaðr haugrinn. Óláfr feilan tók þá við búi í Hvammi ok allri fjárvarðveizlu at ráði þeira frænda sinna, er hann höfðu heimsótt. Enn er veizluna þrýtr gefr Óláfr stórmannlegar gjafir þeim mönnum, er þar váru mest virðir áðr á brott fóru. Óláfr gerðist ríkr maðr ok höfðingi mikill; hann bjó í Hvammi til elli. Börn þeira Óláfs ok Álfdísar váru Þórðr gellir, er átti Hróðnýju dóttur Miðfjarðar-Skeggja — þeira synir váru þeir Eyjólfr grái, Þórarinn fylsenni, Þorkell kuggi; — dóttir Óláfs feilans var Þóra, er átti Þorsteinn þorskabítr, son Þórólfs mostrarskeggs; þeira synir váru Börkr enn digri ok Þorgrímr faðir Snorra goða. — Helga hét önnur dóttir Óláfs, hana átti Gunnarr Hlífarson — þeira dóttir var Jófríðr, er átti Þóroddr son Tungu-Odds, enn síðan Þorsteinn Egilsson; Þórunn hét enn dóttir hans; hana átti Hersteinn son Þorkels Blund-Ketilssonar; — Þórdís hét hin þriðja dóttir Óláfs; hana átti Þórarinn Ragabróðir lögsögumaðr. — Í þann tíma, er Óláfr bjó í Hvammi, tekr Dala-Kollr mágr hans sótt ok andaðist. Höskuldr son Kolls var á ungum aldri, er faðir hans andaðist; hann var fyrr fullkominn at hyggju enn vetratölu. Höskuldr var vænn maðr ok gervilegr. Hann tók við föðurleifð sinni ok búi; er sá bær við hann

kendr, er Kollr hafði búit á; hann var kallaðr síðan á Höskuldsstöðum. Brátt varð Höskuldr vinsæll í búi sínu, því at margar stoðar runnu undir, bæði frændr ok vinir, er Kollr faðir hans hafði sér aflat. Enn Þorgerðr Þorsteinsdóttir móðir Höskulds var þá enn ung kona ok en vænsta. Hon nam eigi yndi á Íslandi eftir dauða Kolls; lýsir hon því fyrir Höskuldi syni sínum, at hon vill fara utan með fjárhlut þann sem hon hlaut. Höskuldr kvaðst þat mikit þykkja, ef þau skulu skilja, enn kvaðst þó eigi mundu þetta gera at móti henni, heldr enn annat. Síðan kaupir Höskuldr skip hálft til handa móður sinni, er uppi stóð í Dögurðarnesi. Réðst Þorgerðr þar til skips með miklum fjárhlut. Enn eftir þat siglir Þorgerðr á haf ok verðr skip þat vel reiðfara ok kemr við Noreg. Þorgerðr átti í Noregi mikit ætterni ok marga göfga frændr; þeir fögnuðu henni vel ok buðu henni alla kosti þá sem hon vildi með þeim þiggja. Hon Þorgerðr tók því vel ok segir, at þat er hennar ætlan at staðfestast þar í landi. Þorgerðr var eigi lengi ekkja áðr maðr varð til at biðja hennar. Sá er nefndr Herjólfr; hann var lendr maðr at virðingu, auðigr ok mikilsvirðr. Herjólfr var mikill maðr ok sterkr; ekki var hann fríðr maðr sýnum ok þó enn sköruligsti í yfirbragði; allra manna var hann bezt vígr. Ok er at þessum málum var setit, átti Þorgerðr svör at

veita, er hon var ekkja; ok með frænda sinna ráði veikst hon eigi undan þessum ráðahag ok giftist Þorgerðr Herjólfi, ok ferr heim til bús með honum; takast með þeim góðar ástir. Sýnir Þorgerðr þat brátt af sér, at hon er enn mesti skörungr; ok þykkir ráðahagr hans nú miklu betri enn áðr ok virðulegri, er hann hefir fengið slíkrar konu sem Þorgerðr var.

8. Þau Herjólfr ok Þorgerðr höfðu eigi lengi ásamt verit áðr þeim varð sonar auðit. Sá sveinn var vatni ausinn ok nafn gefit, ok var kallaðr Hrútr. Hann var snemmindis mikill ok sterkr, er hann óx upp; var hann ok hverjum manni betr í vexti, hár ok herðibreiðr, miðmjór ok limaðr vel með höndum ok fótum. Hrútr var allra manna fríðastr sýnum, eftir því sem verit höfðu þeir Þorsteinn móðurfaðir hans eða Ketill flatnefr: enn mesti var hann atgervimaðr fyrir allra hluta sakir. Herjólfr tók sótt ok andaðist: þat þótti mönnum mikill skaði. Eftir þat fýstist Þorgerðr til Íslands ok vildi vitja Höskulds sonar síns, því at hon unni honum um alla menn fram, enn Hrútr var eftir með frændum sínum vel settr. Þorgerðr bjó ferð sína til Íslands ok sækir heim Höskuld son sinn í Laxárdal. Hann tók sæmilega við móður sinni; átti hon auð fjár ok var með Höskuldi til dauðadags. Fám vetrum síðar tók

Þorgerðr banasótt ok andaðist. Höskuldr tók fé alt, enn Hrútr bróðir hans átti hálft.

9. Í þenna tíma réð Noregi Hákon Aðalsteinsfóstri. Höskuldr var hirðmaðr hans; hann var jafnan sinn vetr hvárt með Hákoni konungi eða at búi sínu; var hann nafnfrægr maðr bæði í Noregi ok á Íslandi. Björn hét maðr; hann bjó í Bjarnarfirði ok nam þar land; við hann er kendr fjörðrinn. Sá fjörðr skerst í land norðr frá Steingrímsfirði, ok gengr þar fram háls í milli. Björn var stórættaðr maðr, ok auðigr at fé. Ljúfa hét kona hans; þeira dóttir var Jórunn; hon var væn kona ok ofláti mikill; hon var ok skörungr mikill í vitsmunum. Sá þótti þá kostr beztr í öllum Vestfjörðum. Af þessi konu hefir Höskuldr frétt, ok þat með, at Björn var beztr bóndi á öllum Ströndum. Höskuldr reið heiman með tíunda mann, ok sækir heim Björn bónda í Bjarnarfjörð. Höskuldr fekk þar góðar viðtökur, því at Björn kunni góð skil á honum. Síðan vekr Höskuldr bónorð, enn Björn svarar því vel, ok kveðst þat hyggja, at dóttir hans mundi eigi vera betr gift, enn veik þó til hennar ráða. Enn er þetta mál var við Jórunni rætt, þá svarar hon á þá leið: „Þann einn spurdaga höfum vér til þín Höskuldr, at vér viljum þessu vel svara, því at vér hyggjum, at fyrir þeiri konu sé vel sét, er þér er gift, enn þó mun

faðir minn mestu af ráða, því at ek mun því samþykkjast hér um, sem hann vill". Enn hvárt sem at þessum málum var setit lengr eða skemr, þá varð þat af ráðit, at Jórunn var föstnuð Höskuldi með miklu fé; skyldi brullaup þat vera á Höskuldsstöðum. Ríðr Höskuldr nú í brott við svá búit ok heim til bús síns, ok er nú heima til þess er boð þetta skyldi vera; sækir Björn norðan til boðsins með fríðu föruneyti. Höskuldr hefir ok marga fyrir boðsmenn, bæði vini sína ok frændr, ok er veizla þessi hin sköruligsta; enn er veizluna þraut, þá ferr hverr heim til sinna heimkynna með góðri vináttu ok sæmilegum gjöfum. Jórunn Bjarnardóttir sitr eftir á Höskuldsstöðum, ok tekr við búsumsýslu með Höskuldi; var þat brátt auðsét á hennar högum, at hon mundi vera vitr ok vel at sér ok margs vel kunnandi, ok heldr skapstór jafnan; vel var um samfarar þeira Höskulds ok ekki mart hversdaglega. Höskuldr gerist nú höfðingi mikill. Hann var ríkr ok kappsamr, ok skorti eigi fé; þótti hann í engan stað minni fyrir sér enn Kollr faðir hans. Höskuldr ok Jórunn höfðu eigi lengi ásamt verit áðr þeim varð barna auðit. Son þeira var nefndr Þorleikr; hann var elztr barna þeira; annarr hét Bárðr. Dóttir þeira hét Hallgerðr, er síðan var kölluð langbrók; önnur dóttir þeira hét Þuríðr. Öll váru börn þeira efnileg. Þorleikr

var mikill maðr ok sterkr ok enn sýniligsti, fálátr ok óþýðr; þótti mönnum sá svipr um hans skaplyndi sem hann mundi verða engi jafnaðarmaðr. Höskuldr sagði þat jafnan, at hann mundi mjök líkjast í ætt þeira Strandamanna. Bárðr Höskuldsson var ok skörulegr maðr sýnum ok vel sterkr; þat bragð hafði hann á sér sem hann mundi líkari verða föðurfrændum sínum. Bárðr var hægr maðr í uppvexti sínum ok vinsæll maðr. Höskuldr unni honum mest allra barna sinna. Stóð nú ráðahagr Höskulds með miklum blóma ok virðingu. Þenna tíma gifti Höskuldr Gró systur sína Véleifi gamla. Þeira son var Hólmgöngu-Bersi.

**10.** Hrappr hét maðr, er bjó í Laxárdal fyrir norðan ána gegnt Höskuldsstöðum. Sá bær hét síðan á Hrappsstöðum; þar er nú auðn. Hrappr var Sumarliða son ok kallaðr Víga-Hrappr: hann var skozkr at föðurætt, enn móðurkyn hans var alt í Suðreyjum, ok þar var hann fæðingi; mikill maðr var hann ok sterkr: ekki vildi hann láta sinn hlut, þó at manna munr væri nökkurr, ok fyrir þat er hann var ódæll, sem ritat var, enn vildi ekki bæta þat er hann misgerði, þá flýði hann vestan um haf ok keypti sér þá jörð er hann bjó á; kona hans hét Vigdís, ok var Hallsteins dóttir; son þeira hét Sumarliði. Bróðir hennar hét Þorsteinn surtr, er þá bjó í Þórsnesi, sem fyrr var

ritat; var þar Sumarliði at fóstri, ok var enn efniligsti maðr. Þorsteinn hafði verit kvángaðr; kona hans var þá önduð. Dætr átti hann tvær; hét önnur Guðríðr, enn önnur Ósk. Þorkell trefill átti Guðríði, er bjó í Svignaskarði; hann var höfðingi mikill ok vitringr; hann var Rauða-Bjarnarson, enn Ósk dóttir Þorsteins var getin breiðfirzkum manni; sá hét Þórarinn. Hann var hraustr maðr ok vinsæll, ok var með Þorsteini mági sínum, því at Þorsteinn var þá hniginn ok þurfti umsýslu þeira mjök. Hrappr var flestum mönnum ekki skapfeldr, ok var hann ágangssamr við nábúa sína; veik hann á þat stundum fyrir þeim, at þeim mundi þungbýlt verða í nánd honum, ef þeir heldi nökkurn annan fyrir betra mann enn hann. Enn bændr allir tóku eitt ráð, at þeir fóru til Höskulds, ok sögðu honum sín vandræði. Höskuldr bað sér segja, ef Hrappr gerir þeim nökkut mein. — „því hvárki skal hann ræna mik mönnum né fé".

**11.** Þórðr goddi hét maðr, er bjó í Laxárdal fyrir norðan á. Sá bær heitir síðan á Goddastöðum. Hann var auðmaðr mikill. Engi átti hann börn. Keypt hafði hann jörð þá er hann bjó á. Hann var nábúi Hrapps, ok fekk oft þungt af honum. Höskuldr sá um með honum, svá at hann helt bústað sínum. Vigdís hét kona hans, ok var Ingjalds dóttir Óláfs sonar feilans. Bróðurdóttir var hon Þórð-

ar gellis, enn systurdóttir Þórólfs rauðnefs frá Sauðafelli. Þórólfr var hetja mikil ok átti góða kosti. Frændr hans gengu þangat jafnan til trausts. Vigdís var meir gefin til fjár enn brautargengis. Þórðr átti þræl þann, er út kom með honum; sá hét Ásgautr. Hann var mikill maðr ok gervilegr, enn þótt hann væri þræll kallaðr, þá máttu fáir taka hann til jafnaðarmanns við sik, þótt frjálsir héti, ok vel kunni hann at þjóna sínum yfirmanni. Fleiri átti Þórðr þræla, þó at þessi sé einn nefndr. Þorbjörn hét maðr; hann bjó í Laxárdal it næsta Þórði upp frá bæ hans ok var kallaðr skrjúpr; auðigr var hann at fé; mest var þat í gulli ok silfri; mikill maðr var hann vexti ok rammr at afli; engi var hann veifiskati við alþýðu manns. Höskuldi Dala-Kollssyni þótti þat ávanta um rausn sína, at honum þótti bær sinn húsaðr verr enn hann vildi. Síðan kaupir hann skip at hjaltneskum manni. Þat skip stóð uppi í Blönduósi. Þat skip býr hann, ok lýsir því. at hann ætlar utan, enn Jórunn varðveitir bú ok börn þeira. Nú láta þeir í haf, ok gefr þeim vel ok tóku Noreg heldr sunnarlega, kómu við Hörðaland, þar sem kaupstaðrinn í Björgvin er síðan. Hann setr upp skip sitt, ok átti þar mikinn frænda afla, þótt eigi sé hér nefndir. Þá sat Hákon konungr í Víkinni. Höskuldr fór ekki á fund Hákonar konungs, því at frændr

hans tóku þar við honum báðum höndum. Var kyrt allan þann vetr.

**12.** Þat varð til tíðenda um sumarit öndvert at konungr fór í stefnuleiðangr austr í Brenneyjar, ok gerði frið fyrir land sitt, eftir því sem lög stóðu til it þriðja hvert sumar. Sá fundr skyldi vera lagðr höfðingja í milli at setja þeim málum, er konungar áttu um at dæma. Þat þótti skemtanarför at sækja þann fund, því at þangat kómu menn nær af öllum löndum, þeim er vér höfum tíðendi af. Höskuldr setti fram skip sitt; vildi hann ok sækja fund þenna, því at hann hafði eigi fundit konung á þeim vetri. Þangat var ok kaupstefnu at sækja. Fundr þessi var allfjölmennr; þar var skemtan mikil, drykkjur ok leikar ok alls kyns gleði. Ekki varð þar til stórtíðenda; marga hitti Höskuldr þar frændr sína þá sem í Danmörku váru. Ok einn dag, er Höskuldr gekk at skemta sér með nökkura menn, sá hann tjald eitt skrautlegt fjarri öðrum búðum. Höskuldr gekk þangat ok í tjaldit, ok sat þar maðr fyrir í guðvefjar klæðum, ok hafði gerzkan hatt á höfði. Höskuldr spurði þann mann at nafni. Hann nefndist Gilli, — „enn þá kannast margir við ef heyra kenningarnafn mitt; ek em kallaðr Gilli enn gerzki“. Höskuldr kvaðst oft hafa heyrt hans getit; kallaði hann þeira manna auðgastan, sem verit höfðu í kaupmannalögum.

Þá mælti Höskuldr: „Þú munt hafa þá hluti at selja oss, er vér viljum kaupa?“ Gilli spyrr, hvat þeir vilja kaupa förunautar. Höskuldr segir, at hann vill kaupa ambátt nökkura, — „ef þú hefir at selja“. Gilli svarar: „Þar þykizt þér leita mér meinfanga um þetta, er þér falið þá hluti, er þér ætlið mik eigi til hafa, enn þat er þó eigi ráðit, hvárt svá berr til“. Höskuldr sá, at um þvera búðina var fortjald. Þá lyfti Gilli tjaldinu, ok sá Höskuldr, at tólf konur sátu fyrir innan tjaldit. Þá mælti Gilli, at Höskuldr skyldi þangat ganga ok líta á, ef hann vildi nökkura kaupa af þessum konum. Höskuldr gerir svá. Þær sátu allar saman um þvera búðina. Höskuldr hyggr at vandlega at konum þessum; hann sá at kona sat út við tjaldskörina; sú var illa klædd. Höskuldi leizt konan fríð sýnum ef nökkut mátti á sjá. Þá mælti Höskuldr: „Hversu dýr skal sjá kona, ef ek vil kaupa?“ Gilli svarar: „Þú skalt reiða fyrir hana þrjár merkr silfrs“. „Svá virði ek“, segir Höskuldr, „sem þú munir þessa ambátt gera heldr dýrlagða, því at þetta er þriggja verð“. Þá svarar Gilli: „Rétt segir þú þat, at ek met hana dýrra enn aðrar; kjós nú einhverja af þessum ellifu ok gjalt þar fyrir mörk silfrs, enn þessi sé eftir í minni eign“. Höskuldr segir: „Vita mun ek fyrst, hversu mikit silfr er í sjóð þeim, er ek hefi á belti mér“. —

biðr Gilla taka vágina, enn hann leitar að sjóðnum. Þá mælti Gilli: „Þetta mál skal fara óvélt af minni hendi, því at á er ljóðr mikill um ráð konunnar; vil ek at þú vitir þat, Höskuldr, áðr vit sláim kaupi þessu“. Höskuldr spyrr, hvat þat væri. Gilli svarar: „Kona þessi er ómála; hefi ek marga vega leitat mála við hana, ok hefi ek aldri fengit orð af henni; er þat at vísu mín ætlan, at þessi kona kunni eigi at mæla“. Þá segir Höskuldr: „Lát fram reizluna ok sjám, hvat vegi sjóðr sá er ek hefi hér“. Gilli gerir svá. Reiða nú silfrit ok váru þat þrjár merkr vegnar. Þá mælti Höskuldr: „Svá hefir nú tiltekizt, at þetta mun verða kaup okkart; tak þú fé þetta til þín, enn ek mun taka við konu þessi; kalla ek at þú hafir drengilega af þessu máli haft, því at vísu vildir þú mik eigi falsa í þessu“. Síðan gekk Höskuldr heim til búðar sinnar; þat sama kveld rekti Höskuldr hjá henni. Enn um morguninn eftir, er menn fóru í klæði sín, mælti Höskuldr: „Lítt sér stórlæti á klæðabúnaði þeim, er Gilli enn auðgi hefir þér fengit; er þat ok satt at honum var meiri raun at klæða tólf enn mér eina“. Síðan lauk Höskuldr upp kistu eina ok tók upp góð kvenmanns klæði ok seldi henni; var þat ok allra manna mál, at henni semdi góð klæði. Enn er höfðingjar höfðu þar mælt þeim málum, sem þá stóðu lög til, var

slitit fundi þessum. Síðan gekk Höskuldr á fund Hákonar konungs ok kvaddi hann virðulega, sem skaplegt var. Konungr sá við honum ok mælti: „Tekit mundu vér hafa kveðju þinni Höskuldr, þóttu hefðir nökkuru fyrr oss fagnat, ok svá skal enn vera“.

13. Eftir þetta tók konungr með allri blíðu Höskuldi ok bað hann ganga á sitt skip, -- „ok ver með oss meðan þú vill í Noregi vera“. Höskuldr svarar: „Hafið þökk fyrir boð yðvart, enn nú á ek þetta sumar mart at starfa; hefir þat mjök til haldit, er ek hefi svá lengi dvalizt at sækja yðvarn fund, at ek ætlaða at afla mér húsaviðar“. Konungr bað hann halda skipinu til Víkrinnar. Höskuldr dvaldist með konungi um hríð. Konungr fekk honum húsavið ok lét ferma skipit. Þá mælti konungr til Höskulds: „Eigi skal dvelja þik hér með oss lengr enn þér líkar, enn þó þykir oss vandfengit manns í rúm þitt“. Síðan leiddi konungr Höskuld til skips ok mælti: „At sómamanni hefi ek þik reyndan, ok nær er þat minni ætlan, at þú siglir nú it síðasta sinn af Noregi, svá at ek sjá hér yfirmaðr“. Konungr dró gullhring af hendi sér, þann er vá mörk, og gaf Höskuldi, ok sverð gaf hann honum annan grip, þat er til kom hálf mörk gulls. Höskuldr þakkaði konungi gjafirnar, ok þann allan sóma, er hann hafði fram lagit. Síðan

stígr Höskuldr á skip sitt ok siglir til hafs. Þeim byrjaði vel ok kómu at fyrir sunnan land; sigldu síðan vestr fyrir Reykjanes ok svá fyrir Snæfellsnes ok inn í Breiðafjörð. Höskuldr lendi í Laxárósi; lætr þar bera farm af skipi sínu ok setja upp skipit fyrir innan Laxá ok gerir þar hróf at, ok sér þar tóftina sem hann lét gera hrófit. Þar tjaldaði hann búðir, ok er þat kallaðr Búðardalr. Síðan lét Höskuldr flytja heim viðinn, ok var þat hægt, því at eigi var löng leið. Ríðr Höskuldr eftir þat heim við nökkura menn ok fær viðtökur góðar, sem ván er; þar hafði ok fé vel haldizt síðan. Jórunn spurði, hver kona sú væri, er í för var með honum. Höskuldr svarar: „Svá mun þér þykkja, sem ek svara þér skætingu; ek veit eigi nafn hennar". Jórunn mælti: „Þat mun tveimr skifta, at sá kvittr mun loginn, er fyrir mik er kominn, eða þú munt hafa talat við hana jafnmart sem spurt hafa hana at nafni". Höskuldr kvaðst þess eigi þræta mundu, ok segir henni it sanna, ok bað þá þessi konu virkta ok kvað þat nær sínu skapi, at hon væri heima þar at vistarfari. Jórunn mælti: „Eigi mun ek deila við frillu þína, þá er þú hefir flutt af Noregi, þótt hon kynni eigi góðar návistir, enn nú þykki mér þat allra sýnzt, ef hon er bæði dauf ok mállaus". Höskuldr svaf hjá húsfreyju sinni hverja nótt síðan hann kom heim, enn

hann var fár við frilluna. Öllum mönnum var auðsætt stórmensku-mót á henni, ok svá þat, at hon var engi afglapi. Ok á ofanverðum vetri þeim fæddi frilla Höskulds sveinbarn. Síðan var Höskuldr þangat kallaðr, ok var honum sýnt barnit; sýndist honum sem öðrum, at hann þóttist eigi sét hafa vænna barn né stórmannlegra. Höskuldr var at spurðr, hvat sveinninn skyldi heita. Hann bað sveininn kalla Óláf, því at þá hafði Óláfr feilan andazt litlu áðr, móðurbróðir hans. Óláfr var afbragð flestra barna. Höskuldr lagði ást mikla við sveininn. Um sumarit eftir mælti Jórunn, at frillan mundi upp taka verknað nökkurn eða fara í brott ella. Höskuldr bað hana vinna þeim hjónum ok gæta þar við sveins síns. Enn þá er sveinninn var tvævetr, þá var hann almæltr ok rann einn saman, sem fjögra vetra gömul börn. Þat var til tíðenda einn morgun er Höskuldr var gengin út at sjá um bæ sinn; veðr var gott; skein sól ok var lítt á loft komin; hann heyrði mannamál; hann gekk þangat til, sem lækr fell fyrir túnbrekkunni; sá hann þar tvá menn ok kendi; var þar Óláfr sonr hans ok móðir hans; fær hann þá skilit, at hon var eigi mállaus, því at hon talaði þá mart við sveininn. Síðan gekk Höskuldr at þeim ok spyrr hana at nafni, ok kvað henni ekki mundu stoða at dyljast lengr. Hon

# Viðbætir.

## I.

### Úr AM. 44. b.

**Börn Snorra ok æfital.**

Snorri goði átti nítján börn frjálsborin, þau er ór barnæsku kómust. Þórðr kausi var elztr, annarr Þóroddr, þriði Þorsteinn, fjórði Guðlaugr munkr; þeir váru synir Ásdísar víga-Styrs dóttur; fimta var Sigríðr, sétta Unnr; þær váru dætr Þuríðar, dóttur Illuga hins rauða; sjaundi Kleppr, áttunda Halldóra, níunda Þórdís, tíunda Guðrún, ellefti Halldórr, tólfti Máni, þrettándi Eyjólfr, fjórtánda Þóra, fimtánda Hallbera, sextánda Þuríðr, sautjándi Þorleifr, átjánda Álöf, nítjándi Snorri; hann var fæddr eftir föður sinn; þessi váru börn Hallfríðar Einarsdóttir. Snorri goði átti þrjú börn þýborin, hét annarr Þórðr kausi, Jörundr ok Þórhildr. Snorri goði var fjórtán vetra, er hann fór utan; hann var utan einn vetr. Hinn næsta vetr er hann kom út, var hann at Helgafelli með Berki enum digra, föðurbróður sínum ok Þórdísi móður sinni.

Þetta haust drap Eyjólfr hinn grá, son Þórðar gellis, Gísla Súrsson, ok þetta vár eftir, er Snorri var sextán vetra gamall, gerði hann bú at Helgafelli, ok bjó þar tuttugu ok þrjá vetr, áðr kristni var í lög tekin á Íslandi, enn þaðan frá bjó hann átta vetr at Helgafelli; ok á þeim síðasta vetri drap Þorgestr Þórhallsson Víga-Styr, mág Snorra goða, á Jörfa í Flisuhverfi. Síðan fór hann búi sínu í Sælingsdalstungu, ok bjó þar tuttugu vetr. Hann lét kirkju gera at Helgafelli, enn aðra í Tungu í Sælingsdal; enn sumir segja, at hann léti gera í annat sinn at Helgafelli með Guðrúnu kirkju, þá er sú brann, er hann hafði gera látit. Hann andaðist ór sótt á hinum sjaunda vetri hins sjautiganda aldrs síns; þat var einum vetri eftir fall Óláfs konungs hins helga, ok var Snorri goði grafinn heima þar í Sælingsdalstungu at þeiri kirkju, er hann sjálfr hafði gera látit. Hann er orðinn stórum kynsæll, því at til hans telja ættir flestir hinir göfgustu menn á Íslandi, ok Bjarkeyingar á Hálogalandi, Götuskeggjar í Færeyjum, ok mart annat stórmenni, þat er hér eigi talt bæði á þessu landi ok öðrum.

## II.

### Úr Hauksbók.

**Um mannanöfn dregin af goðanöfnum.**

Þat er fróðra manna sögn, at þat væri siðr í fyrndinni, at draga af nöfnum guðanna nöfn sona sinna eða dætra, svá sem af Þórs nafni Þórólfr eða Þorsteinn, Þorgrímr; eða sá er Oddr hét fyrstr, hét af hans nafni Þóroddr, sem Þormóðr kvað um Snorra goða ok Odd son hans, er hann kallaði Þórodd, eða Þorbergr, Þórálfr, Þorleifr, Þorgeirr; ok enn eru fleiri nöfn dregin af Ásum ok goðum, þó at af Þór sé flest. Menn höfðu mjök svá þá tvau nöfn; þótti þat líkast til langlífis ok heilla; þótt nökkurir fyrirmælti þeim við guðin, þá mundi þá ekki skaða, ef þeir ætti eitt annat nafn.



# Vísnaskýringar.

**1 (Oddr skáld).** Vestr á Þórnesþingi vas þröng, þar es höppum studdr hjalmraddar stafr[1] kvaddi hodda[2] með stórum hug. Sjóðs farmr Forna[3] kom síðan und snarráðan fœði dolgsvölu barma[4]. Sætt vas at gør með létta.

1. *hjalmrödd*, sverð; *hjalmraddar stafr*, mannkenning. — 2. *hoddar*, fé; *krefja hodda*, heimta fé. — 3. *sjóðs farmr*, fé. — 4. *dolgsvala*, örn (?); *dolgsvölu-barmi*, einhver hræfugl; fæðir hræfugls, maðr.

Þröng var vestr á Þórnesþingi, er hinn gæfusami Illugi krafði stórhuga fjár síns. Kom síðan fé Forna (Tin-Forna) undir hinn snarráða kappa. Það gekk ekki greitt að koma sættum á.

**2 (Oddr skáld).** Drótt[1] gekk sýnt á sættir, enn þrír randa andvöku svellendr[2] fellu þar fyr þolli þremja svells[3] áðr fleggskvánar kynfrömuðr[4], Snorri, kœmi griðum við seggi; þat fyrða forráð gerðisk frægt.

1. *drótt*, þjóð. — 2. *rönd*, skjöldr; *randa andvaka*, orrusta; *randa andvöku* svellandi, orrustu æsandi, mannkenning. — 3. *þremja svell*, sverð; *þremjar* smiðrim á sverði; *þollr*, tré, viðr, sverðsviðr, mannkenning. — 4. *fleggr*, jötunn; *fleggs kván*, tröllkona, *fleggs kvánar kynfrömuðr*, mannkenning = Snorri. — Í handritunum stendr h r e g g s og r e g g s, enn Konráð Gíslason getr til *fleggs*, og er hér farið eftir því. Sbr. Njálu 2,391.

Menn gengu þar sýnilega á sættir, enn þrír menn fellu þar fyrir Illuga áðr Snorri kæmi griðum við menn. Stjórn hans á þessum mönnum varð fræg.

3 (**Þórarinn Máhlíðingr**). Varðak mik kvinna frýju, þars morðfárs myrðir[1] þorði vega; örn hlaut neyta af nýjum ná; barkak vægð at vígi fyr hjaldrs goðs hœli[2] þaðra[3] í valnaðrs styr[4]. Mælik sjaldan hól of þat.

1. *morðfár* orrusta; *morðfárs myrðir*, mannkenning. — 2. *hjaldr,* orrusta; *hjaldrs goð*, Óðinn; *hjaldrs goðs hœlir,* maðr (Þorbjörn). — 3. *þaðra* = þar. — 4. *valnaðr,* sverð; *valnaðrs styrr*, orrusta.

Eg bratt af mér ámæli kvenna, þegar til bardaga kom; örn fekk þar nýja bráð; eg vægði ekki Þorbirni í þeim bardaga. Hæli mér (þó) sjaldan af því.

4 (**Þórarinn Máhlíðingr**) Slíðrbeitr[1] hjörr[2] bragar Móða[3] knátti leita staðar und hetti[4]. Hræflóð[5] rauk of sóknar sœki[6]; blóð fell of eyru; dóma dœmisalr[7] vas fullr dreyra, enn vígtjalds váði[8] vas næri skaldi.

Hér er fylgt þeirri orðaröð, sem K. G. hefir á vísu þessari í „Udvalg“ bls. 105 (sbr. Njálu II, 550—551 og 557—558), enn samkvæmt því sem vísan er hér prentuð, verðr orðaröðin:

Slíðrbeitr hjörr bragar Móða knátti leita staðar und hetti; hræflóð rauk um sóknar sœki. Blóð fell um eyru skaldi, enn vígtjalds váði vas næri; dœmisalr dóma vas dreyrafullr.

1. *slíðrbeitr*, mjög beittr. — 2. *hjörr*, sverð. — 3. *Móði*, Áss, sonr Þórs; *bragar Móði*, skáld; sbr. ‚bragar Ullr'. — 4. *höttr*, hjálmr. — 5. *hræflóð,* blóð. — 6. *sóknar sœkir*, sá sem sækir að öðrum í bardaga (Þorbjörn). — 7. *dóma dœmisalr*, munnr. — 8. *vígtjald,* skjöldr; *vígtjalds váði,* sverð.

Hárbeitt sverð mitt nam staðar und hjálmi (Þorbjarnar). Blóðið fell um hann, og rann af eyrum hans og munni, enn við sjálft lá, að eg yrði fyrir sverði hans.

5 (**Þórarinn Máhlíðingr**). Vitr lögráns vekjandi[1] myndit sekja mik í vetr; ek á leyfðan[2] lífhvötuð[3]; vánir of þat; ef ek næða valfallins nás ásar niðbræði[4], Vermundi, létum Hugins nið[5] njóta nágrundar[6].

5. vísuorð virðist vera aflagað, að minsta kosti ekki rétt rímað.

1. *lögráns vekjandi*, sá sem gerir ójöfnuð (Snorri). — 2. *leyfðr* = lofaðr. — 3. *lífhvötuðr*, lífgjafi, verndari, (Arnkell goði). — 4. *niðbræðir valfallins nás Ásar* (Óðins), mannkenning. — 5. *Huginn*, hrafn Óðins; *Hugins niðr*, hrafn, hræfugl. — 6. *nágrund*, valr.

Hinn vitri og rangsleitni maðr (Snorri) mun ekki sækja mig í vetr. Eg á verndarmann, sem menn lofa; vonir eru um það. Næði eg Vermundi, mundi eg veita vargi bráð.

6 (**Þórarinn Máhlíðingr**). Ek skal segja þremja þrymviðum[1] gørla frá því, hvé hjaldrviðir[2], haldendr skjalda[3] heldu við mik lögum; ek sá handa hnigreyr[4] hrundar[5] roðinn dreyra — þegi herr meðan; ísarns ásum[5] es ván ørleiks[6].

1. *þremja-þrymr*, orrusta; orrustu *viðr,* maðr. — 2. og 3. mannkenning. — 4. *Hrund* er hér hálfkenning. — 5. *ísarn*, járn; *ísarns Áss,* maðr. — 6. *ørleikr,* örvaleikr, orrusta.

Eg skal ekki dylja ykkr, hve menn beittu mig ólögum; eg sá handlegg konu minnar blóðugan; hlustið þér til á meðan. Það er von ófriðar af þeim.

7 (**Þórarinn Máhlíðingr**). Hjør-Nirðir[1], þeirs hættu

fjørvi, sóttu mik heim; gnýljómi[2] beit geymi geira stígs[3] at vígi; svá gørðu vér Þriðja sóknniðjungum[4] fáa líknarkosti; sleitka lostigr sverða leiki.

1. *hjør-Nirðir*, menn. — 2. *gnýljómi* (hálfkenning), sverð. — 3. *geira stígr*, skjöldr; skjaldar *geymir*, mannkenning. — 4. *Þriði*, Áss; *Þriðja sóknniðjungar*, bardagamenn.

Menn þessir hættu lífi sínu, er þeir sóttu mig heim. Sverðið beit á þá í bardaganum. Vér gerðum þeim fáa líknarkosti. Eg hætti ekki bardaganum með ljúfu geði.

8 (**Þórarinn Máhlíðingr**). Urðu vér at verja mik frýju hjaldr-skýja Gefnar[1], þá es hrein unda andvaka[2] þaut við hjalm sveini föður míns á holmi; ár sára[3] varð drifin, hrafn naut hrœva, benunnar lœkir[4] runnu.

1. *hjaldrský*, skjöldr; *hjaldrskýja Gefn*, valkyrja. — 2. *unda andvaka*, sverð. — 3. *sára ár*, sverð. — 4. *benunnar lœkir*, blóðlækir.

Eg hlaut að reka af mér slíðrorð valkyrjunnar, þá er hið bjarta sverð þaut við hjalm minn í bardaganum; sverð (mitt) varð (blóði) drifið; hrafn át hræ, og blóðlækir runnu.

9 (**Þórarinn Máhlíðingr**). Spámeyjar hins þunga hjaldrs þrúðarvangs þings[1], hættar hjalmi, knáttu singva á skjaldi mínum, þás Fróða bóga bjúgröðull[2] varð blóðdrifinn fyr baugs óðaldraugi[3]. Vápns Gjöll[4] óx á völlum.

1. *Þrúðarvangr* = *Þrúðvangr*, bústaðr Þórs, *þing Þrúðvangs*, Æsir; Ása *hjaldr*, orrusta; *spámeyjar* Ása hjaldrs, örvar. — 2. *Fróði*, sækonungsheiti; *bógr Fróða*, skip; *bjúgröðull* skipa, skjöldr. — 3. *óðaldraugr baugs*, mannkenning. — 4. *Gjöll*, fljót; *vápns Gjöll*, blóð.

Örvarnar, hættulegar hjálminum, sungu á skildi mínum,

og skildirnir urðu blóðdrifnir fyrir mér; blóðið streymdi um völluna.

**10 (Þórarinn Máhlíðingr).** Þóttumk reka af mér klámorð við borða remmiskóðs Móða[1], — kennir Rakna kunnfáka[2] hné, — hvatki es sælingr[3] mælir um þat við sína leiku[4]. Hrafn sleit beitu af ná-Hildar síks gotna[5].

1. *remmiskóð*, sverð; *borð remmiskóðs*, skip; *borða remmiskóðs Móði*, maðr. — 2. *Rakni*, sækonungr; *Rakna kunnfákr*, skip, *kennir skips*, maðr. — 3. *sælingr*, göfugmenni (Snorri goði). — 4. *leika*, leiksystir, vinkona. — 5. *síkr*, fiskr, *Hildar* fiskr, sverð; *gotar* sverðs, mannkenning.

Eg þóttist reka af mér klámorð við hann — hann fell — hvað sem höfðinginn (Snorri) segir um það við vinkonu sína. Hrafninn sleit náinn.

**11 (Þórarinn Máhlíðingr).** Hrofts hyrskerðir[1], mér man verða kveðit at heiftum, es hlautviðir[2], þeir es flœkja skil[3], hétu at ek hjögga guðvefjar Hlín[4] mína. Kunna ek svá áðr leita ylg teiti[5] fyr Enni[6]. Hlœkjendr hófs[7] eggjumk.

1. *Hroftr*, Óðinn; *hyrr*, eldr; *Hrofts hyrskerðir*, mannkenning. — 2. *hlaut*, blóð; *hlautviðir*, goðorðsmenn. — 4. *guðvefjar Hlín*, kvenkenning. — 5. *ylgr*, úlfr; *leita ylg teiti*, leita úlfi gleði, berjast. — 6. *Enni* = Ólafsvíkr-Enni. — 7. *hlækjendr* (af hlœkja) *hófs*, brögðóttir menn, sem rangfæra hið rétta.

Það mun verða borið út af hatri um mig, er goðorðsmenn þeir sem bera mig ólögum létu heita svo, að eg hefði höggvið konu mína. Eg hefi áðr barizt hér fyrir Enni. Þessir rangsleitnu menn hafa eggjað mig.

**12 (Þórarinn Máhlíðingr).** Nagli fekk flestum ná-

göglum[1] dálega nest; klokkr kafsunnu[2] kennir réð at støkkva í fjall; hjalmi faldinn Álfgeirr gekk heldr af meiri hvöt at vápna galdri[3]; hjaldrs eldr[4] þurði[5] of aldir.

1. *nágagl*, hræfugl. — 2. *kafsunna* = vatnssól, gull; *kennir* gulls, maðr. — 3. *vápna galdr*, orrusta. — 4. *hjaldrs eldr*, sverð. — 5. *þurði* (þátíð af þyrja, þeysa) fór hart yfir.

Nagli fekk vörgum laklega bráð (barðist ómannlega); ragmennið stökk í fjall. Álfgeirr gekk með meiri hug að bardaganum; sverðið æddi yfir mennina.

13 (**Þórarinn Máhlíðingr**). Gætir geirastígs[1] rann grátandi frá vígi; þar vasat hánum, grímu geymi[2], góð ván friðar, svát menskiljandi[3], merskyndir[4], mundi vilja hlaupa á sjá; bjóðr bifrstaups[5] hugði á bleyði.

1. *geirastígr*, skjöldr; *gætir* skjaldar, mannkenning. — 2. *grímu geymir*, mannkenning. — 3. *menskiljandi*, mannkenning. — 4. *merskyndir*, merreki, hestastrákr. — 5. *bifr*, bjór, drykkr; *bjóðr bifrstaups*, mannkenning.

Hann (Nagli) rann grátandi frá bardaganum; þar var honum ekki góð friðar von, og ætlaði því merrekinn að hlaupa á sjó út. Hann hugði á bleyði.

14 (**Þórarinn Máhlíðingr**). Vermundr, vér munum, at (vér) várum glaðir stundum áðr auðar þollr[1] olli dauða auðvarpaðar[2]. Hör-Gerðr[3], nú sjámk hitt, at vér munum verða hlæja[4] fyr prúðum þegni; leið erumk rauðra randa regn[5].

1. *auðar þollr*, mannkenning. — 2. *auðvarpaðr*, mannkenning (hér: Þorbjörn). — 3. *hör-Gerðr*, kvenkenning. — 4. *hlæja* er líklega eitthvað afbakað, enda vantar hendingar í þetta vísuorð, enn meiningin er: að verða at

athlægi, eða lúta í lægra haldi. — 5. *randa regn*, bardagi.

Í handritunum stendr: ollum, enn hér er því breytt í olli, sem þykir fara betr, og leitt erumk rauðra randa, enn með þessari breytingu verða hendingar í vísuorðinu, og hefir dr. Jón Þorkelsson bent á það.

Vermundr, vér minnumst þess, að vér vórum stundum glaðir, áðr enn ég varð banamaðr Þorbjarnar. Nú sjáum vér hitt, að vér verðum að lúta í lægra haldi fyrir Snorra. Mér leiðist þessi ófriðr.

15 (**Þórarinn Máhlíðingr**). Ugglegt vas at hyggja til hrafnvíns hreggs[1] á bœ mínum. Munins tuggu eldr[2] þurði of aldir, þás frán víkinga mána lind[3] á firða fundi beit lögðis kindar[4] liðu gøgnum Høgna vé[5].

1. *hrafnvín*, blóð, blóðs *hregg*, bardagi. — 2. *Muninn*, hrafn Óðins; *Munins tugga*, hræ; hræeldr, sverð. — 3. *víkinga mána lind* = víkinga tungls tré, sverð. — 4. *lögðis kind*, menn. — 5. *Högna vé*, skildir.

Uggvænt var að hyggja til bardagans á bæ mínum. Sverðin óðu yfir mennina og bitu þá gegnum skjöldana.

16 (**Þórarinn Máhlíðingr**). Haukaness drífu hirðinjótar[1] hétu mik hóglífan til þessa; vask heftandi heiftar. Oft kømr œðiregn ór dúsi[2]. Nú kná ævifús alnar leiftra jörð[3] fregna til orða.

1. *haukanes*, hönd; *haukaness drífa*, gull; *hirðinjótar* gulls, mannkenning. — 2. *dús*, kyrð (sbr. sögnina að dúsa, hvíla sig). — 3. *alnar leiftr*, handleggs eldr, gull; gulls *jörð*, kona.

Menn töldu mig hægan viðreignar til þessa; eg hvatti

menn til friðar. Oft kemr stórrigning úr logni. Nú getr hin fjöruga kona frétt til orða minna.

17 (**Þórarinn Máhlíðingr**). Hoppfögr[1] ekkja skal at skoppa[2] öldrukkin af því, at ek hyggja á kvíðu. Hér er komin ljóna stríðs fjón[3]; ek veit at hrafn gat beitu af hræva efni; hrævahaukr[4] unir hörðum hjørdøggvar leiki[5].

1. *hoppfögr*, fögr í limaburði (danzfögr?). — 2. *skoppa*, stökkva upp (af gleði). — 3. *ljónar* menn; *fjón*, hatr; *ljóna stríðs fjón*, hatrsfullr ófriðr manna. — 4. *hrævahaukr*, hræfugl. — 5. *hjørdøgg*, blóð; blóðs *leikr*, bardagi.

Hin fríða ekkja skal ekki gleðjast af því, að eg sé kvíðinn. Hér er kominn hatrsfullr ófriðr milli manna. Hrafn hefir fengið sér bráðir; hræfuglinn unir við bardagana.

18 (**Þórarinn Máhlíðingr**). Skjaldar haldendr[1] láta hátt, at (vér) munim hljóta rómusamt ór dómi, nema Arnketill, orðgóðr við þjóðar lof, haldi sakmálum órum; sækjum ráð und ríkjan; trúik vel grímu galdrs geymi[2].

1. *skjaldar haldendr*, menn. — 2. *grímu galdr*, hjálma söngr, sverð; sverða *geymir*, mannkenning.

Þeir draga ekki dulur á, að vér munum verða sekir á þingi, nema Arnkell, sem leggr gott til allra mála, og allir lofa, haldi uppi vörn fyrir oss; sækjum ráð undir hinn volduga mann; eg trúi honum vel.

19 (**Þórarinn Máhlíðingr**). Mundar fagrvita Grund[1], esat sem ræni frænings gráps fúra fleygi-áru[2] lögum fyr glœpi, ef Gauts þekju sunnu sannvitendr[3] sekja mik; sék þeira lið meira; guð megni oss gagni.

1. *mundar fagrviti*, gull, gulls *Grund*, kvenkenning.

— 2. *fræningr*, spjót; *frænings gráps fúrr*, örvar; örvafleygi-árr mannkenning. — 3. *Gauts þekju sunnu sannvitendr*, mannkenning.

Kona, eigi er svo sem þeir geri ræni oss lögum fyrir glæpi, ef þeir gera mig sekan. Eg sé að þeirra lið er meira. Guðin veiti mér lið.

20 (**Þormóðr Trefilsson**). Folksvaldi[1] feldi fyrst velti hins gullbyrsta valgaltar[2]; þann hétu Vigfús; benskárar[3] slitu þar síðan sára bráð af böð-Nirði[4], arfnytja[5] Bjarnar.

1. *fólksvaldi*, höfðingi (Snorri). — 2. *veltir valgaltar*, mannkenning. — 3. *benskári*, hræfugl. — 4. *böð-Njörðr*, mannkenning. — 5. erfingi.

Snorri feldi fyrst þenna hrausta mann, er Vigfús hét; hrafnar slitu síðan hræ af syni Bjarnar.

21 (**Halli berserkr**). Gangfögr, línbundin, liðar hanga leygjar Gerðr[1], hvert hafið gørva för þína? — ljúg vætr[2] at mér — þvít í vetr sákat þik, hin vitra húns vangs hirðidís[3], ganga skrautlegar búna frá húsi.

1. kvenkenning. — 2. *vætr*, ekki neinu. — 3. kvenkenning.

Kenningarnar í þessari vísu eru fremr tortryggilegar, eða úr lagi færðar.

Fagra, línklædda mær, hvert er ferð þinni heitið? — seg mér satt frá því — því að í vetr hefi eg ekki séð þig ganga skrautlegar búna að heiman.

22 (**Leiknir berserkr**). Siggjar linda sól-Grund[1] hefir sjaldan um faldit jafnhátt; nú es skart á öglis stéttar ells þellu[2]. Hvitörm, hýrmælt hyrsunds Hlín[3], hvat býr hóti fleira undir oflæti þínu enn vér lítum?

1. *Siggjar lind*, sækonungs vatn, sjór; sjávar *sól*, gull;

gulls-*Grund*, kvenkenning. — 2. *öglir*, haukr; *öglis stétt*, hönd; handar *eldr* gull (ells = elds); gulls *þella*, kona. — 3. *hyrsunds Hlín*, kvenkenning.

Þú hefir sjaldan faldið jafnhátt (borið svo hávan fald); nú er skart á þér. Hvíthenda, hýrlega mær, hvað býr fleira undir viðhöfn þinni enn vér sjáum?

23 (Víga-Styrr). Mér sýndisk sem spjóta mótefiandar[1] mundu ekki verða dælir Ála elherðuudum[2]. Uggik eigi strangan ofrgang seggja um mik; bilgrönduðr[2] hefir nú merkðan berserkjum stað brandi.

1. *spjótamóteflandar*, menn. — 2. *Áli*, sækonungr; *Ála el*, orrusta; *Ála elherðandi*, mannkenning. — 3. *bilgrönduðr* (sbr. óbilgjarn), hraustr maðr.

Mér sýndist sem berserkirnir mundu ekki verða góðir viðreignar; eg var þó ekki hræddr við þá. Eg, sem er friðsamr maðr, hefi nú markað berserkjunum stað með sverði mínu.

24 (Björn Breiðvíkingakappi). Strengs Grund[1], vit mundu vilja þenna dag lengstan milli guls og blás viðar, — ek fæ stundum stöð, alls, armlinns þella[2], ek tekk sjálfr at drekka í aftan erfi oft horfinnar gleði minnar.

K. G. ætlar, og er það mjög líklegt, að gulls, sem stendr í handr., eigi að vera *guls*. Tegumk stendr líka í handr., enn þar mun mega lesa tekk, enda verða þá aðalhendingar tekk—drekk.

1. *strengs Grund*, kvenkenning. — 2. *armlinnr*, handleggsormr, gullhringr.

Við mundum vilja, að þessi dagr yrði okkr lengstr milli himins og jarðar. Eg fæ stundum að hvíla mig — því að í kveld fer eg að drekka erfi gleði minnar, sem eg hefi oft mist.

25 (**Þórarinn Máhlíðingr**). Hraustum hríðar hyrlesti[1] munat at stríða mér; höfum heldr valdit vígi tveggja sona Viðleggs sem valdr víg-balkar[2] válki falda geymi-Bil[3] eða deigum dalsveigi at kaupa Draupnis skatt[4].

1. *hríðar hyrlestir*, á víst að vera mannkenning, enn er líklega afbökuð — 2. *vígbalkr*, skjöldr, skjaldar-valdr, mannkenning. — 3. *falda geymi-Bil* er kvenkenning. — 4. *Draupnis skattr*, gull.

Síðari hluti vísu þessarar er lítt skiljanlegr.

Hinum hrausta bardaga manni ferst ekki að fást við mig o. s. frv.

26 **Þormóðr Trefilsson**). Hinn folkrakki Snorri fekk sárorra[1] gnógs verðar sverði; fegrðist[2] ungr sigri. Leifa máreifir[3] laust unda gjalfrs eldi[4] í lífsköstu[5] es Arnkel feldi.

1. *sárorri*, hræfugl. — 2. *fegrðist*, varð fríðr, frægr. — 3. *máleifa-reifir* er mannkenning; *máleifar*, hræ. — 4. *unda gjalfr*, blóð; *unda gjaldrs eldr*, sverð. — 5. *lífs-köstr*, brjóst.

*Leifa-máreifir* er tilgáta K. G., Nj. II, 270, og mun vera rétt. Í handr. stendr framðist, enn dr. Jón Þorkelsson rektor getr til, að þar eigi að standa *fegrðist*, og er þá rímið nær réttu lagi.

Hinn djarfi bardagamaðr, Snorri, fekk vargi næga bráð; hann varð ungr frægr (fagr) af sigrum. Hann laust eldi í lífsviðu (brjóst) Arnkels, er hann feldi hann.

27 (**Björn Breiðvíkingakappi**). Sák hvar hlunns runnr[1] ægilegr í augum rann at fenris brunni[2] í runni. Þrjótar Marnar vita[3] láta þeygi þat barn kunna[4] föður sinn, hleypi rastar hesta[5].

1. *hlunns runnr*, mannkenning. — 2. *fenrir*, úlfr; úlfs

*brunnr*, blóð. — 3. Marnar viti, gull; *þrjótar Marnar vita*, mannkenning. — 4. *kunna*, þekkja. — 5. *hleypir rastar hesta* (skipa), mannkenning.

Eg sá hvar Kjartan hraustlegr, líkr móður sinni, hljóp að bardaganum. Menn álíta ekki það barn þekkja föður sinn.

28 (**Björn Breiðvíkingakappi**). Þá mun hin mjóva aðalbjóra þöll[1] Þórodds sanna getu, — fannhvít falda fold[2] unni mér — ef áttgöfug auðbrík[3] ætti sonu glíka sjalfum mér; enn emk gjarn til gjalfrelda Gunnar[4].

1. *aðalbjóra þöll*, kvenkenning. — 2. *falda Fold*, kvenkenning. — 3. *auðbrík*, kvenkenning. — 4. *Gunnr*, valkyrja, *Gunnar gjalfreldr*, orrusta.

Þá mun hin grannvaxna kona sanna spá (mína), ef hún (hin ættgöfga kona) ætti sonu sem liktust mér. Eg er enn fús til að eiga í bardögum.

29 (**Björn Breiðvíkingakappi**). Hafleygjar Hlín[1], sú es berr váðir, mundit þeygi um hyggja vel mínu ráði í viða vrá[2], ef öldu eld-Njörunn[3] vissi nú hafviggs hirðiþoll liggja einn kalinn í steina helli.

1. *Hafleygjar Hlín*, kvenkenning. — 2. *vrá* (d. vraa), horn, skúmaskot; *viða vrá*, skógr. — 3. *öldu eld-Njörun*, kvenkenning.

Konunni, sem hvílir í rekkju(?), mundi ekki þykja vel fara um mína hagi í skóginum(?), ef hún vissi mig nú liggja aleinan kalinn í helli þessum.

30 (**Björn Breiðvíkingakappi**). Eg skar súðum[1] sýlda[2] svanfold[3] austan með hlaðit flaust[4], því at gœibrúðr[5] leiddi oss fast ástum; ek gat[6] hingat víða vásbúð; hugtullr víglundr[7] byggir nú um stund helli fyrir konu þing[8].

1. *súð*, skip. — 2. *sýldr*, svell-lagðr (af sýla, sem algengt er í alþýðumáli). — 3. *svanfold*, vatn, sjór. — 4. *flaust*, skip. — 5. *gæibrúðr*, glöð, kát kona (sbr. góligr, skemtinn). — 6. *gat* = fekk. — 7. *víglundr*, mannkenning. — 8. *bingr*, (hér) rekkja.

Eg risti sýldan sjóinn með hlöðnu skipi að austan, því að ást hinnar glöðu konu dró mig fast að sér; eg fekk vosbúð hingað; eg byggi nú ókvíðinn helli í staðinn fyrir konu rúm.

31 (**Björn Breiðvíkingakappi**). Vár verk und vörðum[1] merkjum Styrbjarnar[2] spurðusk; iarnfaldinn[3] Eiríkr hlóð öldum í geira dyn[4]. Nú trað ek hundvillr hauðr um heiði í vátri gerninga drífu[5] vífs, því at ek fat[6] illa víða braut.

1. *vörðum*, sem vóru varin. — 2. Styrbjörn Svíakappi er Björn hafði verið með og fell í bardaganum á Fyrisvöllum. — 3. *iarnfaldinn*, með hjálm á höfði. — 4. *geiradynr*, bardagi. — 5. *gerninga-drífa*, galdrahríð. — 6. *fat* (af feta, ganga), rataði.

Verk vor und merkjum Styrbjarnar hafa frézt. Hinn hjálmfaldni Eiríkr feldi menn í bardaganum. Nú ráfa eg rammviltr á heiði í galdrahríð, því eg gat illa fundið veginn.

32 (**Draugr**). Þessi vísa þarf engrar skýringar við.

33 (**Þormóðr Trefilsson**). Sára dynbáru svangreddir[1] saddi örn á úlfs virði[2] í Álftafirði; Snorri lét þar þá fimm þegna numna fjörvi at hjörregni[3]; svá skal hemna[4] fjándr.

1. *sára dynbára*, blóð; blóð*svanr*, hræfugl; hræfugla *greddir*, bardagamaðr. — 2. *ulfsvirði* = ulfsverði (af ulfs-

verðr, úlfsmatr). — 3. *hjörregn*, bardagi. — 4. *hemna* = hefna.

Bardagamaðrinn (Snorri) saddi hræfugla í Álftafirði. Drap Snorri þar fimm menn í bardaga. Svo skal hefna sín á óvinum.

34 (**Þormóðr Trefilsson**). Hinn móðbarri[1] tjör-Rínar týnir[2] vá tvá menn meir at hjörsennu[3] fyr sunnan á; síðan lágu sex gumnar fjörnumnir[4] á gífrs grandnesi[5]; slíks eru jarteknir[6].

1. *móðbarr*, hugrakkr. — 2. tjör, eldr? *Rínar tjör*, gull; gulls *týnir*, mannkenning. — 3. *hjörsenna*, orrusta. — 4. *fjörnumnir*, dauðir. — 5. *gífr*, tröll, *gífrs grand*, Þórr; gífrs grand-nes er því = Þórsnes. — 6. *jarteknir*, ljós merki.

Hinn hugrakki maðr vó enn fremr tvo menn í bardaga fyrir sunnan á (Hvítá í Borgarfirði). Síðan lágu sex menn dauðir í Þórsnesi; til þessa eru ljós merki.

35 (**Þormóðr Trefilsson**). Í Bitru varð böð[1]; þar hykk gørvi gnógs styrjar[2] fengu gjóðum sigrfljóða[3] bráð; þrír hafreiðar leiðendr[4] lágu þar lífs vanir fyr þrekstœri[5]; þar fekk hrafn væri[6].

1. *böð*, orrusta. — 2. *gørvir styrjar*, sem gerir styrjöld (hér: Snorri). — 3. *gjóðr*, fugl; *sigrfljóð*, valkyrja; valkyrjufugl, hræfugl. — 4. *hafreið*, skip; skip*leiðandi*, mannkenning. — 5. *þrekstœrir*, kappi (hér: Snorri goði). — 6. *væri* er líklega eitthvað rangt, á að vera = bráð.

Í Bitru varð bardagi; fekk Snorri þar hræfuglum bráð; þrír menn lágu þar dauðir fyrir honum; hrafn fekk þar bráð.

36 (**Fóstra Þórodds**). Hristir hadds hallar mjallar[1],

hjarðar vísi[2] knýr haus blóðvita raddu; hann ræðr um fjör manna; sá svarðhristir[3] kennir þér sinna jarðar ben[4]. Þat verðr at fé[5] fjötrar fjör þitt. Enn sék gørva[6].

1. *haddr*, hár; *hadds höll*, höfuð; höfuð*mjöll*, gull; gulls *hristir* mannkenning. — 2. *vísi*, konungr; hjarðarkonungr, (hér:) nautið Glæsir. — 3. *svarðhristir*, (hér:) nautið. — 4. *sinna jarðar ben* er fremr óljóst. Þorl. Jónsson lætr það þýða: hugsa um gröfina, dauðann. — 5. *fé*, fénaðr (graðungrinn). — 6. *gørva*, gerla.

Þóroddr, nautið segir fyrir mannsbana; það kennir þér að hugsa um dauðann; það verðr, að fénaðr verðr þér að bana. Eg er enn þá glöggskygn.

37 (**Fóstra Þórodds**). Auðar þofta[1] er oft œri[2] es hrœrir tungu enn þér látið; sék bengrát[3] á blóðgum búki; tarfr hér mun verða bani þinn, þvít hann tekr horfa reiðr við mannum; Gerðr hins gjalla gulls[4] sér þat.

1. *auðar þofta*, kvenkenning. — 2. *œri* (miðst. af órr, ungr), yngri. — 3. *bengrátr*, blóð. — 4. *gulls Gerðr*, kvenkenning.

Eg er oft yngri enn þér hyggið, þegar eg tala; eg sé þig blóðugan. Tarfrinn hér mun verða bani þinn, því að hann er orðinn illilegr; eg sé það.

## Nöfn.

## Leiðréttingar.

*Nafnið* Kjallakr, *sem þannig er ritað í útgáfu Guðbr. Vigfússonar af sögu þessari og eflaust í handr. því sem hún er bygð á, er í Landn. ritað* Kjarlakr, *enn með því að ekki er hægt að reiða sig á rithátt Landn. er nafnið hér ritað* Kjallakr *nema í registinu. Nafnið* blígr (Þórðr blígr) *er hér á nokkurum stöðum misprentað* blýgr, *og stafar sú villa frá útgáfu Þorleifs Jónssonar, sem notuð var í prentsmiðjunni við letrsetningu þessarar útgáfu.*

*Bls.* $15_{29}$: Srtsdóttur *les* Súrsdóttur. *Bls.* $97_{1}$: Fróða *les* Fróðá. *Bls.* $170_{6}$: Armóðssonar *les* Arnmóðssonar. *Bls.* $173_{16}$: Einarsdóttir *les* Einarsdóttur.



# FLJÓTSDÆLA SAGA.

---

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR

VALD. ÁSMUNDARSON.



REYKJAVÍK.

KOSTNAÐARMAÐUR: *SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.*

1896.

# FORMÁLI.

Áðr hefir þessi saga að eins verið gefin út einu sinni: „Fljótsdæla hin meiri, eller den længere Droplaugarsona saga, efter håndskrifterne udgiven af Kristian Kålund, Kjöbenhavn 1883“, og lét „Samfundet til udgivelse af gammel nordisk litteratur“ prenta hana.

Útgefandinn, dr. Kålund, hefir ritað langan formála fyrir sögunni og skýrt þar frá ýmsu áliti sínu um aldr og efni sögunnar.

„Fljótsdæla hin meiri“, eða *Fljótsdæla saga*, sem hún er nefnd í þessari útgáfu, hefir verið lítt kunn og handrit af henni óvíða, þótt ein tvö handrit sé til af henni í handritasafni ísl. Bókmenntafél. í Khöfn og eitt í Bókmentafélagssafninu hér (í safni Guðmundar Einarssonar, enn það er ekki talið í prentuðu handritaskránni) og enn finnist örfá handrit af henni víðar hjá einstökum mönnum eða á söfnum.

Það er því ekki rétt, sem dr. Kålund segir, að almenningr muni telja sögu þessa fullkomnari enn Droplaugarsona sögu, því almenningr hefir ekki þekt hana og þekkir hana jafnvel ekki enn, þrátt fyrir útgáfu dr.

Kålunds. Því söguútgáfur „Samf. til udgivelse af gl. nordisk litteratur“ eru svo dýrar, að almenningr hér á landi kaupir ekki.

Enn hitt er víst, að lærðir menn og vísindamenn hafa álitið sögu þessa gamla, og því hefir verið ráðið að gefa hana út með latneskri þýðingu, eins og dr. Kålund getr um, þótt aldrei hafi orðið af því, enda hefir Svb. Egilsson virt söguna svo mikils, að safna orðum úr henni í „Skáldamáls orðbók“ sína („Lexicon poeticum“), eins og dr. Kålund líka tekr fram.

Konráð Maurer kallar söguna „tilbúning“ frá 17. öld, enn það er auðsætt, að hann hefir ekki þekt hana til hlítar.

Kålund telr söguna vera samda á yfirfarstímabili milli miðaldanna og nýja tímans, eða nákvæmara tiltekið á fyrra hlut 16. aldar.

Enn það er alls ekki líklegt, að þessi saga sé rituð um þær mundir. Málið á henni er of fornlegt til þess, og vér þekkjum engin rit frá þeim tíma í svo fornum búningi. Málið á söguritunum frá siðskiftatímanum er alt öðruvísi. Það er og mjög ósennilegt, að 16. aldar menn hafi kunnað að fyrna svo ritmál sitt, eins og Kålund heldr.

Meiri líkur eru því til, að sagan sé rituð á 15. öld, og hún gæti jafnvel, að því er málið snertir, verið rituð seint á 14. öld, því auðsætt er, að það hefir breyzt hjá þeim sem síðar hafa skrifað upp söguna.

Það yrði oflangt mál hér að færa sönnur á þetta, fremr enn nú er gert.

Enn þótt sagan sé svona gömul, þá kemr frásögnin í henni allvíða ekki heim við hinar austfirzku sögur, einkanlega Droplaugarsona sögu. Eigi að síðr er ekki fyrir að synja, að frásagnir Fljótsdæla sögu geti átt við sannleika að styðjast. Sagan er færð í letr mjög löngu eftir þann tíma er hún gerðist, og er því eðlilegt, að þar geti ýmislega verið blandað málum, enn annars eru ekki ósennilegri frásagnir í Fljótsdælu enn í mörgum öðrum Íslendingasögum; slíkt kemr jafnvel fyrir í hinum beztu þeirra.

Svo virðist sem Fljótsdæla saga hafi upphaflega verið lengri enn hún er nú, og að síðari hluta Droplaugarsona sögu, sem hefst með 6. kap., hafi verið bætt síðar við söguna, af því að þá hefir vantað aftan við hana. Þessi partr af Droplaugarsona sögu á heldr ekki vel við það, sem á undan er komið. Þar á móti bendir ýmisl. í Fljótsdæla sögu á, að endir hennar hafi verið, eða átt að vera, allr annar upphaflega.

Í 27. kap. segir frá deilum þeim er urðu út af drápi Bjarnar í Snotrunesi, enn þar er ekki getið um Sveinunga Þórisson, sem Droplaugarsona saga segir frá í 6. kap. með þessum orðum:

Sveinungr hét maðr, er bjó á Bakka í Borgarfirði. Hann var Þórisson. Hann var mikill maðr ok sterkr ok vitr. Hann var vinr Helga Droplaugarsonar.

Þar segir og, að Sveinungr og Helgi hafi farið báðir

til móts við Björn, þá er Helgi bað hann að „láta af kvámum til Þórdísar“.

Að öðru leyti er frásögnin hin sama sem í Droplaugarsona sögu, nema það sem sagt er um þá Hallsteinssonu og klausan um Flosa á Svínafelli, sem prentuð er aftan við þessa útg. ásamt fyrri hluta af Droplaugarsona sögu, sem rétt þótti að prenta hér til þess að lesendrnir hefði glöggara yfirlit yfir söguna í heild sinni.

Það yrði langt mál, ef fara ætti að bera saman Droplaugarsona sögu og Fljótsdælu, að því leyti sem þeim ber á milli, og verðr hér að sleppa því, enda getr lesandinn séð það sjálfr.

Mér þykir eigi ólíklegt, að Fljótsdæla sé rituð í Eyjafirði, og dreg eg það af örnefnunum *Naustadæli* og *Vindgjá*, sem eg ætla að muni verið hafa við Eyjafjörð innanverðan. Þar heitir bær Naust öðrum megin fjarðar, enn Varðgjá hinum megin, og Varðgjá getr hafa misritazt Vindgjá. Vegalengdin þar á milli er álíka og yfir Njarðvík, svo að þetta kemr vel heim. — Væri þá sennilegast, að sagan væri rituð á klaustrinu öðru hvoru, Munka-Þverá eða Möðruvöllum.

Fljótsdæla saga er hér prentuð eftir útgáfu Kålunds, nema hvað einstöku leshættir eru hér leiðréttir.

Með því að fá handrit eru til af Fljótsdæla sögu, og þau meira og minna rangskrifuð, má búast við að ýmsar afbakanir sé enn í sögunni. Af því má ekki ætla, að sagan sé yngri enn hún er. Þar sem sagt er að „Hreiðarr sat við fornsögu“, þá getr það verið einhver misritun, eða að svo eigi að skilja, að hann hafi hlýtt á meðan forn-

saga var sögð. — Lýsingar á búningum og híbýlum manna eru mjög fornlegar.

Fljótsdæla saga er vel sögð og skemtilega. Málið er fornt. Staðalýsingarnar eru nákvæmar og réttar. Af bæjanöfnunum má meðal annars ráða aldr sögunnar, og benda þau á, að hún sé ekki yngri enn getið er til hér að framan.

## TÍMATAL.

---

| | | |
|---|---|---|
| Fæddr Ketill þrymr . . . . . . . . | um | 930. |
| Fæddir Droplaugarsynir . . . . . | — | 965. |
| Fæddr Helgi Ásbjarnarson . . . . | — | 950. |
| Víg Helga Droplaugarsonar . . . | — | 998. |
| Víg Helga Ásbjarnarsonar . . . . | — | 1005. |
| Grímr Droplaugarson deyr . . . | — | 1006. |



# Fljótsdæla saga.

Þorgerðr hét kona. Hon bjó i Fljótsdal austr. Hon var ekkja af hinum beztum ættum ok hafði þá fé litit. Þar bjó hon, sem nú heitir á Þorgerðarstöðum. Frændr Þóris *Hrafnkelssonar* vildu, at hann staðfesti ráð sitt ok fengi sér forystu ok fýstu, at hann bæði Þorgerðar; sögðu forgang góðan í því ráði. Þórir fekk þessarrar konu, ok skyldi boð vera at Hrafnkelsstöðum á mánaðar fresti. Var Ásbirni *bróður hans* boðit til boðs. — Glúmr hét maðr, er bjó í Fljótsdal fyrir vestan, þar sem nú heitir á Glúmsstöðum. Þuríðr hét kona hans ok var Hámundardóttir, kynjuð sunnan ór Þjórsárdal. Þau áttu sér eina dóttur, þá er Oddbjörg hét. Þær mæðgur fóru í fjós einn morgin snemma; nautamaðr var í fjósi, enn Glúmr lá í rekkju sinni. Enn þá er þær kómu heim at bænum, var hlaupin skriða á bæinn ok

þar Glúmr inni orðinn ok allr lýðr, sá er á bænum var, nema þessir þrír menn. Eftir þessi tíðindi lætr Þuríðr færa bæinn yfir ána, hóti ofar enn áðr var. Hon bjó þar lengi; sá bær heitir nú síðan á Þuríðarstöðum. Þessi tíðindi spurðust í Hrafnkelsdal. Þuríðr var hin vitrasta kona og skörungr mikill; fæddi hon upp meyna með mikilli virkt; var hon ok allra kvenna vænst ok bezt ment. Ok er Ásbirni kómu orð bróður síns, *tekr hann* því vel ok býðr at sér vinum sínum, ríðr vestan yfir heiði ok kemr á Þuríðarstaði þess erendis, at hann biðr Oddbjargar sér til eiginkonu, ok þat var ráðit: fór við þat ofan til boðsins, at hann flutti þetta brúðarefni með sér. Sjá veizla fór vel fram ok var all-fjölmenn; váru bæði brullaupin í senn. Eftir boðit ríðr Ásbjörn vestr yfir heiði með konu sína heim á Aðalból; váru góðar samfarar þeira. Þau Þórir ok Þorgerðr váru ásamt til þess, at þau gátu son ok dóttur: hann hét Hrafnkell, enn hon Eyvör. Hon var gefin Hákoni á Hákonarstöðum, er nam Jökulsdal. Enn þau Ásbjörn ok Oddbjörg áttu fjórar dætr ok kómust engar ór barnæsku. Enn síðast áttu þau son, er Helgi hét; hann vóx upp með föður sínum ok var hinn efnilegasti maðr. Þeir frændr uxu upp þar í heraðinu jafnsnemma ok var þeira fjogurra vetra munr. Þeir bræðr sátu langa hríð í ríki sínu, ok var gott samþykki

þeira, meðan þeir lifðu báðir, ok varð Þórir sóttdauðr; enn eftir hann tók fé ok mannaforráð kona hans ok Hrafnkell son hans, þó at hann væri ungr at aldri, með umsjá Ásbjarnar. Helgi vóx upp á Aðalbóli með föður sínum; hafði hann alla hluti til þess, at hann þótti betr mentr enn aðrir menn, bæði at yfirlitum og skapsmunum. Oddr hét maðr. Hann hafði þar land numit; bæði var hann blindr ok gamall í þann tíð. Hann átti einn son, er Ölviðr hét; hann tók fjárforráð eftir föður sinn. Ölviðr var mikill maðr vexti, allra manna málgastr, ósvinnr ok óvinsæll, heimskr ok illgjarn ok í öllu ójafnaðarmaðr. Hann var aðdráttarmaðr mikill at búinu, bæði af fjörðum neðan ok af fjöllum ofan.

2. Þat bar til á einu sumri, at Ölviðr bjó ferð sína upp í Fljótsdals herað til grasa, alt fram at jöklum. Í þessarri ferð ganga hrossin frá þeim Ölvið ofan eftir Fljótsdal, enn hann leitar ok hans menn ofan eftir heiðum hrossanna ok finnr eigi. Ok er hann kemr fyrir botninn á Hrafnkelsdal, þá sjá þeir stóðhross mörg ofan í dalinn, er Ásbjörn átti. Ölviðr bað þá taka hrossin ok færa upp á föng sín. Mönnum hans þótti þat óráðlegt, at taka hross Ásbjarnar; sögðu þat eigi vel dugat hafa við föður hans. Ölviðr kvaðst eigi vilja vera óbirgr á fjöllum uppi fyrir eign annarra manna, —

„ok hirði ek aldri, hverr á, ok skal taka hross at vísu“. Ok svá gerðu þeir, ok eru síðan lagðar klyfjar á hrossin ok gengu þau heim á Oddsstaði með. Ok eftir þat sendir hann hrossin vestr yfir heiði, ok váru þau tilger all-óþokkulega. Ok er hrossin kómu aftr, þá ríðr Ásbjörn austr yfir heiði ok kemr á Oddsstaði. Hann drap á dyr ok bað Ölvið út ganga. Hann gerir svá ok heilsar vel Ásbirni. Ásbjörn spurði, hvern óskunda hann átti honum at gjalda. Enn Ölviðr kvaðst honum ekki ilt eiga at gjalda. „Þat ætlaða ek“, sagði Ásbjörn, „því at ek þykkjumst ómeinn við aðra; skal ek þetta vel í höndum hafa, ef þú vilt þessa máls áunna sem öðrum þykkir rétt, nema þú vilir heldr, at vit semjum með okkr“. Ölviðr kveðst eigi vita, at um þetta væri at málþarfa, ok kvaðst engis máls vilja áunna, — „þykki mér þat jafnskaplegt, at hvárr vár bónda sé eigi óbirgr fyrir annars eign; mun ek ok gera alla jafna um þetta mál, þó at þér hafið heldr mannaforráð enn vér; ok man þér mál þykja bóta fyrir þetta mál áðr ek bæti þér þetta eða öðrum, þó at ek geri þeim slíkt“. Ásbjörn segir, at honum mundi þat eigi vel gefast. Reið hann heim við svá búit, ok er heima þau misseri. Ok er leið fram at várþingi, þá reið Ásbjörn ofan í Fljótsdals herað ok stefndi Ölviði til várþings til Kiðjafells, — þessi þingstöð er á hálsinum milli Skriðudals ok

Fljótsdals — ok sótti þar hrossamálit. Þar urðu öngvir menn til varnar, ok lýkr Ásbjörn sektarorði við Ölvið; reið við þat heim at hans *(ok)* báði féránsdóm. Síðan ríðr Ásbjörn á Oddsstaði ok tekr Ölvið höndum í rekkju, leiddu hann út ok drápu þegar. Ásbjörn kvaðst svá leiða skyldu smámennum at veita bóndum ágang. Skifti Ásbjörn þá fénu við konu hans; tók hon lausafé ok búsbirgðir; hann tók bústaðinn undir sik ok fekk þar forráðsmann fyrir. Enn hann sitr á Aðalbóli um hríð, ok hlýtr þar nú frá at hverfa um sinn.

3. Þiðrandi hét maðr; hann bjó á þeim bæ, er í Njarðvík heitir; hon liggr milli Fljótsdals heraðs ok Borgarfjarðar. Þiðrandi átti mannaforráð um Njarðvík ok upp í herað at Selfljóti. Selfljót gengr fyrir austan ór heiðinni milli Gilsárteigs ok Ormstaða, ok svá fellr þat ofan í Lagarfljót. Þetta *fljót er* fyrir ofan reitinn, enn Lagarfljót fyrir vestan, ok er þat kölluð Útmannasveit. Þetta var þá hundrað bónda eign ok LXX. Þiðrandi var ríkr maðr ok þó vinsæll, því at hann var hægr við sína undirmenn. Hann var sterkr ok mikill vexti, ok haukr at hug. Hann bjó lengi ok var gagnveitull; ok þá er hann var gamall maðr, var hann kallaðr Þiðrandi hinn gamli. Var hann ok svá, því at menn segja þat, at hann hefði sex vetr hins fjórtanda tigar. Hann var þá þó enn hress maðr;

hann var virkr at fé, ok gekk hann þá jafnan at, er húskarlar gáfu lítinn gaum at. Þat var einn vetr um brundtíð, at húskarlar hans váru rónir á sjó at leita fiska, enn sumir at heyvi, at hann gengr til hrútahúss síns, þess er innan garðs var. Á því kveldi kómu allir fyrri heim enn hann. Menn spyrja, hvar hann muni vera. Konur sögðu, at hann hefði gengið til hrútahúss síns. Nú er hans leitat þangat: sitr hann fyrir utan garðinn þar hjá húsinu. Menn spyrja, hví hann færi eigi heim. Hann segir sér gönguna óhæga verit hafa, enn kvað þá þó lítit um hafa batnat, ok sagði hrút einn hafa lostit sundr í sér lærlegginn. Var hann við þetta heim borinn ok ger hvíla hans. Ok eftir þat lystr í verkjum, ok blæss lærit mjök ok þetta leiðir hann til bana. Hann átti eftir tvá sonu: hét hinn eldri Ketill, enn Þorvaldr hinn yngri. Hvárrtveggi þeira bræðra var mikill vexti. Þorvaldr var manna sjálegastr, hljóðr ok fáskiftinn: hann var hinn mesti sannsmaðr um flesta hluti. Enn Ketill var manna sterkastr í þat mund: hann var ljótr maðr ok þó höfðinglegr, dökkr ok mikilúðlegr: hann var manna hægastr hversdaglega, enn hann var þögull ok fálátr snemma, ok var kallaðr Þrum-Ketill. Gallar stórir váru á hans skapsmunum: sumir kölluðu þat meinsemd. Þat kom at honum í hverjum hálfum mánaði, at skjálfti hljóp

á hans hörund, svá at hverr tönn í hans höfði gnötraði, ok hrærði hann upp ór rúminu. Varð þá at gera fyrir honum elda stóra, ok leita honum allra hæginda, þeira er menn máttu veita. Þessum hroll ok kulda fylgdi bræði mikil, ok eirði hann þá engu, því er fyrir varð, hvárt sem var þili eða stafr eða menn: svá þó at eldar væri, þá óð hann. Þá gekk hann undan húsum þili eða dyrabúning, ef fyrir varð, ok gekk þetta á hverjum þeim degi, er at honum kom, ok urðu menn þá alla vega at vægja til við hann, sem máttu. Enn þá er af honum leið, var hann hægr ok stjórnsamr. Þetta kom ok til mikils gagns honum ok mörgum öðrum, þá er á leið æfi hans. Systir þeira bræðra hét Hallkatla, dóttir Þiðranda hins gamla. Hon var gift Geiti Lýtingssyni, er bjó í Krossavík norðr í Vápnafirði. Geitir var vinsæll maðr, enn forgangr Hallkötlu var einkar góðr. Þau áttu tvá sonu: hét hinn eldri Þorkell, enn Þiðrandi hinn yngri: hann hafði nafn afa síns. Þessir bræðr váru báðir vel mentir, ok þó sinn veg hvárr. Þorkell var jarpr á hár, dökkr maðr, lágr og þreklegr, ok kallaðr manna minstr, þeira sem þá váru, manna skjótlegastr ok hvatastr, sem raun bar á, því at hann átti oft við þungt at etja ok bar sik í hvert sinn vel. Þiðrandi Geitisson var manna mestr ok sterkastr: fanst eigi sá maðr í þann tíma, er sæmi-

legri væri. Er ok svá sagt, at hann hafi hinn fjórði maðr verið bezt mentr á öllu Íslandi, enn annarr maðr er til nefndr Kjartan Óláfsson; hinn þriði Höskuldr Þorgeirsson Ljósvetningagoða, enn hinn fjórði Ingólfr Þorsteinsson, er kallaðr var Ingólfr hinn væni. Segja fróðir menn, að öngvir hafi með slíkri mentan skapaðir verið á öllu Íslandi, sem þessir fjórir menn, ok er svo mikit af sagt ásjánu þessarra manna, at margar konur fengu eigi haldit skapi sínu, ef litu fegrð þeirra; ok þat er alþýðu rómr, at þar eftir færi önnur mentan þeira.

4. Hróarr hét maðr. Hann bjó á þeim bæ, er at Hofi hét; þat er í Fljótsdals heraði fyrir vestan Lagarfljót ok fyrir utan Rangá, enn fyrir austan Jökulsá. Þessi sveit hefir tekit viðnefni af Hróari ok heitir Hróarstunga. Hann fekk ok viðnefni af Tungunni ok var kallaðr Tungu-goði. Barnlauss maðr var hann ok átti mergð fjár. Hann var þá gamall maðr. Þess er getit, at Hróarr gerir heimanför sína norðr til Vápnafjarðar. Hann kemr at kveldi í Krossavík hina ytri. Geitir Lýtingsson tók við honum vel ok ágætlega ok bauð honum þar at sitja meðan hann vildi. Hróarr Tungu-goði er þar þrjár nætr. Eftir þat biðr hann reka at hesta þeira félaga ok kvaðst þá vilja lýsa yfir erendum sínum — „ok em ek til þess hingat kominn, at ek býð heim til fóstrs Þiðranda syni þínum;

ok ef þú vilt þetta, þá gef ek honum eftir minn dag fé ok staðfestu ok ríki. Enn Þorkell taki þitt mannaforráð eftir þinn dag. Þykki mér þú því at eins mína ferð góða gera, ef ek fæ þetta sem ek beiði; mun okkr þá at þessum manni vera mikill styrkr, at hann er sonr þinn, enn fóstri minn ok erfingi". Geitir kvaðst eigi nenna né vilja drepa hendi við svá miklum sæmdum. Ferr nú Þiðrandi austr með Hróari í Tungu ok gerir Hróarr til hans hvað öðru betr. Hefir Þiðrandi þar litla stund áðr verit, at þat máttu allir sjá, at Hróarr unni honum mikið, ok þar út í frá alþýða manns; svá var hann vinsæll, ok þat helzt honum til dauðadags. Var þá Þiðrandi sex vetra gamall, er hann fór til fóstrs ór Krossavík. Þorkell var þá tíu vetra.

5. Þeir bræðr í Njarðvík sömdu eigi öll mál með sér um fjárráð. Ketill vildi einn ráða öllu, svá at Þorvaldr var at öngu kvaddr. Enn Þorvaldi leiddist þat brátt, ok beiddi at þeir mundi skifta fé ok mannaforráði. Enn Ketill bað hann skifta, þegar hann vildi, ok kvaðst honum unna við sik alls fjár at helmingi — „enn mannaforráð er lítit, ok nenni ek eigi at skifta, því at ek ann þess öngum nema mér". Þorvaldr þóttist jafnt eiga hvárttveggja, þó at hann næði eigi, — „enn sét hefi ek þat fyrir löngu, at þú vilt mig flestu affella. Þykki mér sem sénn muni minn kostr, at ek muni slíkt hljóta at hafa,

sem þú skefr mér af fé; enn þó skulu vit skilja at sinni, þó at þú gerir minn harðan. Enn vita skaltu þat, at ek þykkjumst at helmingi eiga, þó at ek fái eigi svá búit“. Síðan leitaði Ketill at fémunum, ok skiftir öllu fé í helminga við Þorvald, bæði kvikfé ok lausafé, ok öllu því er innan veggja var, nema goðorði; því skifti hann eigi. Eftir þat fór Þorvaldr á burt með alla eign sína upp um heiði; hann bygði lendur sínar, þær sem hann hafði hlotit, enn seldi kvikfé at leigu. Skip stóð upp í Fljótsdals heraði við hin eystri fjöll, þar sem heitir Unaóss. Þorvaldr fær vöru, ok ræðr sik í þetta skip ok fór utan; ok er þeir koma í haf, byrjaði þeim lítt, ok velktust úti lengi sumars, ok at áliðnu sumri fá þeir veðr stór ok ákaflega hríð. Þessi veðr leiða þá ór hafi ok sigla at Hjaltlandi um nótt. Þar váru útfiri mikil, ok sigla þeir í boða ok brjóta skipit í spán, ok týndist fé alt, enn menn kómust lífs á land. Þorvaldr kom á land sem aðrir menn; var hann í íslenzkum klæðum. Öngvan hlut rak upp af fé Þorvalds nema eitt spjót mikit; tók hann þat í hönd sér. Hann var tvær nætr við ströndina ok beið, ef nökkut ræki upp af hans varnaði, ok vill þat ekki verða, at þau mörk finnist, at Þorvaldr ætti. Sýnist honum þat ráð, at sitja þar eigi lengr birgðalaust; er þat einn dag, at hann gengr í burt. Fyrir Hjaltlandi

réð þá jarl einn, sá er Björgólfr hét; hann var þá gamall maðr. Það sýnist Þorvaldi, at snúa þangat at, er jarl réð fyrir. Hann settist utarlega um kveldit, enn um morguninn gekk hann fyrir jarl. Sjá jarl var vinsæll af alþýðu, enn var þó þá óglaðr. Hann kvaddi vel jarlinn. Hann tók því vel. Jarl spurði, hverr hann væri. Hann kvaðst vera íslenzkr maðr, leysingi einn af smám ættum, nýkominn ór skipbroti, auralauss maðr ..veitið mér, herra, vetrvist, því at ek vil gjarnan með yðr vera". Jarl mælti: „Svá lízt mér á þik sem þess munir þú þurfa". Þorvaldr bað hann vísa sér til sætis. Jarl mælti: „Sittu á óæðra bekk, þar sem mætast þrælar ok frjálsir menn; vertu fáskiftinn ok kátr af þyrft þinni við alla". Þorvaldr gekk til sætis ok er hann þar um vetrinn; gerir hann eftir því sem jarl mælti, at hann var kátr við bekkjunauta sína, enda váru þeir auðveldir í öllum spurningum, ok spurði hann jafnan margs. Ok leið vetrinn mjök fram at jólum. Þá ógladdist mjök lýðrinn; jarlinn gerði þá mjök ókátan. Jarl átti sér konu unga, ok tvá sonu við, unga at aldri enn væna at áliti. Ok þat var einn aftan, at Þorvaldr spyrr þá er næstir honum váru, hvat mönnum stæði fyrir ógleði; enginn vildi segja honum ok líðr nú at jólunum. Þat var eina nótt, at þeir menn heyrðu, sem næst lágu Þorvaldi, at hann lét illa í svefni. Þeir

vildu vekja hann, enn jarl bað þá láta hann njóta draums síns. Síðan vaknaði hann ok spurðu menn, hvat hann hefði dreymt, enn hann vildi þar ekki frá segja. Þat var tveim náttum áðr at menn heldu jól sín, at Þorvaldr gekk fyrir jarl ok kvaddi hann vel ok virðulega. Jarlinn tók því blíðlega. Þorvaldr mælti: „Því em ek hér kominn, at ek vil spyrja yðr at því, er enginn vill annarr mér segja; ek vilda vita, hvat til berr um ógleði þeira manna er hér eru: því at menn njóta hvárki svefns né matar, ok ætlar mér þat nökkurrar hrygðar. Þykki mér þú af því líklegastr til at segja mér, þeira sem hér eru, at þú ert hér formaðr annarra". Jarl kvað hann þess ekki þurfa at forvitnast — „því at þat skiftir þik öngu. Þú munt ekki at því gera, ok hafðu öngva þökk fyrir fréttina: forvitnizt þér þat margt, at yðr er engin þörf á, ok væri þat maklegt, at þess gildi einhverr". Þorvaldr kvaðst eigi mundu at hafa spurt, ef hann hefði vitat, at honum þótti fyrir — „mun ek þá ok frá hverfa, enn bið ek, at þér ráðið draum minn“. Jarl svarar: „Enginn em ek drauma maðr; kann ek ok eigi ráða þá, því at ek hendi ekki tal af þeim, enn þó máttu segja, ef þú vilt". Þorvaldr mælti: „Þóttumst ek ganga til sjávarsins með þeim sama búningi, sem ek em vanr at hafa hversdaglega. Mér þótti þann veg ljóst, at ek sá leið mína. Spjót

mitt hafða ek í hendi mér. Mér þótti vera fjara, er ek kom til sjávarins, enn eigi flóð. Ek þóttumst ganga með sjónum, þar sem váru sandar miklir ok útfiri: ok er þat þraut, varð fyrir mér fles ein; enn er ek fór yfir gjögurinn, var þar vaxit þangi stóru, ok þá sá ek á land upp hæð mikla eða fjall; enn í fjalli því framan váru hamrar við sjóinn ok bjarg mikit ok hátt. Ek þóttumst þar vaða fyrir framan ok hafa djúpt. Þá kom ek á smámöl; gekk ek þá lengi með sjónum milli ok bjargsins. Þá varð fyrir mér hellir mikill ok gekk ek þar inn. Ek sá þar brenna ljós, svá at hvergi bar skugga á. Ek sá járnsúlu eina standa upp í hellinum undir ræfr: enn við þessa súlu var bundin ein kona: hendr hennar váru bundnar á bak aftr, enn hári hennar var vafið um súluna; hlekkir váru um hana ór járni: var þar láss í öðrum enda, ok var hon þar læst við: ek þóttumst taka til at leysa hana, ok þat gat ek leikit; sá ek þar ekki fleira kvikt enn hana eina. Fór ek þá þaðan í burt með hana. Þóttumst ek þá fara fyrir forvaðann ok kvámumst ek þar. Þá þótti mér sem mér væri eftirför veitt af einhverju kvikindi; var mér þat mikill ótti. Vit hittumst, enn ekki man ek hversu fór með okkr; mun ek þá hafa látit illa í svefninum. Í því vaknaða ek“. Jarl varð svá rauðr, er hann heyrði þetta, at honum mátti nálega einum fingri

dreyra vekja. Hann þrútnaði mjök ok mælti: „Undarlega er yðr farit, at þér segið, at yðr dreymi þat er menn segja yðr; ok er ærin skapraun mín, þó at ek sé ekki mintr á; því at ek man enn nær dóttir mín hvarf á burt heðan. Væri þat maklegt, at sá kendi á sínum hlut er þér sagði, þar sem ek hefi áðr bannat öllum". Þorvaldr svarar: „Vel máttu vita þetta, herra: enginn þinna manna hefir mér þessi tíðendi sagt; þetta hefir mér í svefni sýnt verit. Mun ek hér svá mikit mál til taka sem þér vilið". Jarl þagnaði ok svaraði af stundu: „Hér skiftir tvennu um þína hagi, at þú ert maðr forspár, ella muntu dauðamaðr af stundu". Þorvaldr svarar: „Ek vilda at þér segðið mér þau tíðendi, er hér hafa orðit í yðrum hýbýlum: þykkjumst ek vita, at mikil munu orðin". Jarl svarar: „Hví mun eigi verða svá at vera. Ek átta mér eina dóttur, fyrr enn þessa sveina tvá, er Droplaug hét: þat var kallat, at hon væri vel ment; ek unna henni mikit. Á hinum fyrrum jólum hvarf hon heðan brott. Hana tók jötunn sá er Geitir heitir; á hann þar bygð, er þú þóttist koma; þat heitir Geitishamarr, enn þat fjall heitir Geitissúlur. At þeim manni verðr mörgum mein: meiðir hann bæði menn ok fé, enn sjá meinvættr er mest á öllu Hjaltlandi. Hefi ek þat mælt, at þeim manni munda ek hana gefa, ef nökkurr væri svá frækinn, at

henni næði á burt". Þorvaldr kvaðst það ólíklegt þykkja, at hon mundi þaðan nást. Jarl svarar: „Eigi munda ek hana með þeim hætti á burt hafa látit, ef ek hefða ráðit". Sýnist mér þú skyldr til að leggja þik í nökkura hættu, er þú hefir fyrstr til orðit eftir at spyrja". Þá svarar Þorvaldr: „Ek vilda aldri eftir hafa spurt", ok snýr þegar á brott ok til sætis síns. Eftir náttverð fara menn til rekkna. Ok er Þorvaldr finnr, at menn eru sofnaðir, þá ríss hann upp ok tekr spjót sitt í hönd sér. Hann gengr með söndum nökkurum ok stefndi til norðrs, mjök hina sömu leið, sem honum hafði sýnzt í svefninum. Þar til gengr hann, er fles ganga ok gjögrar ok þang stórt; þá varð fyrir honum malargrýti. Gengr hann enn þar til, er forvaði var, ok veðr hann fyrir forvaðann. Hér kemr hann nú, sem honum hafði sýnzt í svefninum, ok gengr at helli ok inn í hellinn. Sá hann at ljós brann: öðrum megin sá hann rekkjurúm eitt, miklu meira enn hann hefði annat fyrr sét slíkt, ok hugsaði, þó at hann legðist niðr í rúmit, ok annarr maðr jafnmikill honum ok spyrndist í iljar, at þó mundi ærit langt, enn Þorvaldr var þó manna mestr. Þessi rekkja var ekki at öðru minni enn at lengd. Var þessi hvíla öngu tjölduð nema borða einum, enn yfir rekkjuna var breitt guðvefjar pelli. Beðirnir váru stórir, svá at mikit var upp ór

vestr til mága sinna, Gísla ok Þorkels. Þorgrímr drap Véstein Vésteinsson at haustboði í Haukadal. Enn annat haust eftir, þá er Þorgrímr var hálfþrítugr sem faðir hans, þá drap Gísli mágr hans hann at haustboði á Sæbóli. Nökkurum nóttum síðar fæddi Þórdís kona hans barn, ok var sá sveinn kallaðr Þorgrímr eftir feðr sínum. Litlu síðar giftist Þórdís Berki hinum digra, bróður Þorgríms, ok réðst hon til bús með honum til Helgafells; þá fór Þorgrímr son hennar í Álftafjörð, ok var þar at fóstri með Þorbrandi; hann var heldr ósvífr í æskunni, ok var hann af því Snerrir kallaðr, ok eftir þat Snorri. Þorbrandr í Álftafirði átti Þuríði dóttur Þorfinns sel-Þórissonar frá Rauðamel. Þeir váru börn þeira: Þorleifr kimbi elztr, annarr Snorri, þriði Þóroddr, fjórði Þorfinnr, fimti Þormóðr. Þorgerðr hét dóttir þeira; þeir bræðr váru allir fóstbræðr Snorra Þorgrímssonar. Í þenna tíma bjó Arnkell, son Þórólfs bægifótar, á Bólstað við Vaðilshöfða. Hann var manna mestr ok sterkastr, lagamaðr mikill ok forvitri. Hann var góðr drengr, ok umfram alla menn aðra þar í sveit at vinsældum ok harðfengi; hann var ok hofgoði ok átti marga þingmenn. Þorgrímr Kjallaksson bjó í Bjarnarhöfn, sem fyrr var sagt, ok áttu þau Þórhildr þrjá sonu: Brandr var elztr, hann bjó í Krossnesi við Brimlárhöfða; annarr var Arn-

grímr; hann var mikill maðr ok sterkr, nefmikill, stórbeinóttr í andliti, rauðbleikr á hár ok vikóttr snimma, skolbrúnn, eygðr mjök ok vel; hann var ofstopamaðr mikill ok fullr ójafnaðar, ok fyrir því var hann Styrr kallaðr. Vermundr hét hinn yngsti son Þorgríms Kjallakssonar; hann var hár maðr, mjór, ok fríðr sýnum; hann var kallaðr Vermundr enn mjóvi. Sonr Ásgeirs á Eyri hét Þorlákr; hann átti Þuríði dóttur Auðunar stota ór Hraunsfirði. Þau váru þeira börn: Steinþórr, Bergþórr, Þormóðr, Þórðr blígr ok Helga. Steinþórr var framast barna Þorláks; hann var mikill maðr ok sterkr ok manna vápnfimastr, ok hinn mesti atgervismaðr; hógværr var hann hversdaglega. Steinþórr er til þess tekinn, at hinn þriði maðr hafi bezt verit vígr á Íslandi með þeim Helga Droplaugarsyni ok Vémundi kögr. Þormóðr var vitr maðr ok stiltr vel. Þórðr blígr var ákafamaðr mikill. Bergþórr var yngstr ok þó enn efnilegsti.

**13.** Snorri Þorgrímsson var þá fjórtán vetra, er hann fór utan með fóstbræðrum sínum Þorleifi kimba ok Þóroddi. Börkr (enn) digri föðurbróðir hans galt honum fimm tigi silfrs til utanferðar. Þeir urðu vel reiðfari, ok kómu til Noregs um haustit; þeir váru um vetrinn á Rogalandi. Snorri var með Erlingi Skjálgssyni á Sóla, ok var Erlingr vel til hans, því at þar

ok leitaða fyrir þér. Nú er hann heim kominn ok mun hann verða mér feginn; enn hann mun ekki eftir þér leita, ef hann ratar mik“. Hann svarar: „Þat skal aldri verða, því at eitt skal yfir okkr ganga, meðan ek má á þér halda“, — steypir af sér loðkápunni ok færir hana í; setr hana niðr síðan í gjögurinn ok spjótit hjá henni; enn hann snýr aftr á veginn. Hann sér þá at bar við himni höfuð jötunsins, miklu hærra enn hamarrinn. Hann bar at henni grjót svá mikit, at hon mátti ekki á burt komast. Þá tók hann sverðit ok gengr móti jötninum. Jötunninn kallar hátt ok bað hann niðr láta melluefni sitt — „ætlar þú þér mikit í fang at færast, auvirði þitt, er þú vilt taka hana frá mér, er ek hefi áðr lengi átt“. Ok í þessu stígr jötunninr upp í skoruna bjargsins, þá sem Þorvaldr hafði sét, enn öðrum fæti á flesin ok varð hann eigi vatskorr. Ok sá hann, at til þess var þessi skor, at jötunninn vildi eigi vaða. Enn í þessu kemr Þorvaldr at, ok hleypr inn undir hann, enn jötunninn breiðir frá sér lámana ok ætlaði at taka Þorvald. Enn í því höggr Þorvaldr til hans, ok kom á mitt lærit jötunsins, ok tók af fótinn vinstra megin fyrir ofan kné ok kom sverðit í sandinn niðr. Enn jötunninn fell ok kvað við sárlega ok mælti: „Illa hefir þú mik svikit, ok meir enn ek ætlaða, at þú hefir tekit þat eitt vápn, er mér mátti grand vinna. Fór

ek af því óhræddr eftir þér, at ek hugsaði ekki, at smámenni mundi mér verða at bana. Enn nú muntu þykkjast hafa mikinn sigr unnit. Muntu ætla at bera vápn þetta ok þínir ættmenn; enn þat mæli ek um, at þá verði þeim sízt gagn at, er mest liggr við". Þorvaldr leitaði þess á, at hann skyldi ekki fleiri orð mæla þeim til óþurftar, ok höggr á hálsinn svá at af tók höfuðit, ok stakk höfðinu milli þjóanna; því vann hann þat eigi fyrri, at hann fálmaði höndunum, ok fekk Þorvaldr eigi færi á honum fyrr enn hann kyrðist. Gengr hann síðan burt frá honum ok þar til er hon lá, ok fann þá at á henni var ómegin eða óvit. Hann tekr hana upp ok rann þá af henni brátt svá sem svefn. Hann gengr með hana þar til er hann kemr heim til hallar. Þá váru menn at dagdrykkju; menn höfðu saknað Þorvalds ok gáfu þeir lítinn gaum at því. Ok nú gengr hann inn í höllina ok hafði Droplaugu á handlegg sér, enn sverð í annarri hendi; gekk hann fyrir jarlinn ok kvaddi hann ok kvaðst færa honum dóttur sína. Jarl var henni einkar feginn ok margir aðrir. Jarl spurði, með hverjum hætti eða atburð hann hefði henni náð. Hann sagði allan atburð, ok kvað mjök eftir drauminum gengit hafa. Jarl svarar: „Mikil er gifta þín ok gæfa, er þú hefir unnit þann óvin, er hér hefir mestr verit á váru landi; enn þó munu vér brátt sjá þetta".

Hirðmenn sögðu, at þetta mundi ekki svá mikit tröll vera sem menn höfðu látit, — „at hann hefir einn unnit, ok man þetta lygi ein vera“. Ok eftir þetta ætlar Þorvaldr at snúa til sætis síns. Jarl kallaði þá eftir honum, ok bað hann sitja þat forsæti fyrir framan hásætit — „mun annathvárt vera um hagi þína, at þú munt meiri virðingar verðr, enn ek hefi til þín gert, eða þú munt ekki langærr maðr verða. Enn þat megu allir sjá, at þú hefir oss góða fórn fært. Er þín för góð orðin, ok er oss nú jafnnýtt um sem þá er enginn varð til í þenna háska at ganga. Enn aldri mun mér efalaust, at vér njótim þessarrar konu, fyrr enn ek veit at sá fjándi er afráðinn“. Eftir þat drekka menn ok heldr í skemmra lagi; þá eru tekin ofan borð. Björgólfr jarl bað menn sína vápnast ok ganga til at sjá þessi tíðendi. Þeir fara ok Þorvaldr með þeim, ok koma þar til er sjá dólgr lá, ok sá nú allir, hversu at var unnit; gengu margir tæpt at, þeir er áðr kölluðu þetta lítit þrekvirki verið hafa. Jarl lætr fella mörk ok draga saman; hann lætr hlaða bál ok láta síðan draga jötuninn út á bálið ok brenna hann at köldum kolum, ok eftir þat flytja þeir öskuna á sjá út. Síðan fara þeir til hellisins á skipunum ok flytja þaðan mikinn auð ok alt þat er fémætt var, ok flytja heim. Er þat kallat jafnan síðan Geitis

hellir eða Geitis hamrar. Ok er ekki getit, at hann sé síðan af tröllum bygðr.

6. Þá er menn kómu heim, var varningrinn tíndr, ok er þat kallat, at þar væri saman kominn mestr hluti þess varnings, er á því skipi var, er Þorvaldr hafði á verit, ok þar kendi Þorvaldr alla sína vöru. Þorvaldr ok jarl létu þat hvern mann hafa er sér kendu, enn hitt var þó miklu meira, er enginn bar kensl á, fyrir því at íslenzkr varningr var lítils verðr hjá því sem annat var, því at þat var margra manna sælur. Síðan launaði Þorvaldr þeim mönnum vel, er sitt erfiði höfðu fyrir þessu haft. Þorvaldr sitr nú í Hjaltlandi í mikilli virðingu. Þótti þat hit mesta þrekvirki, er hann hafði unnit. Jarlinn virði engan mann fyrir Þorvald fram ok þar gerðu aðrir menn eftir. Sat hann þar þau misseri hin næstu. Ok á þessu sama sumri spurðist virðing sjá til Íslands, er Þorvaldr hafði fengit á Hjaltlandi. Margir menn í Austfjörðum fögnuðu er þeir spurðu, at svá hafði atborizt, nema Ketill bróðir hans; hann lét sem hann vissi eigi. Þótti mönnum mikil gifta til Þorvalds fallit hafa, svá afskiftan sem Ketill hafði hann gert. Þorvaldr sat á Hjaltlandi framan til jóla ok þá gekk hann fyrir jarl ok kvaddi hann, ok spurði hann hvárt hann myndi nökkut til hinna fyrri jóla; hann kvaðst gerla muna. „Þá mun ek heimta þat verðkaup,

sem þú sjálfr sagðir upp, þá er ek sagða þér draum minn, at þú hétst at gefa þeim manni dóttur þína, er henni næði burt þaðan. Nú vil ek vita mitt erendi; vil ek ekki hér vera, ef mik dregr ekki til". Jarl mælti: „Alt er mér samt í hug um þat nú ok þá, at mér lízt þú maklegastr at njóta hennar, ef nökkur nyt er í. Enn eigi sýnist mér nú jafngóðr kostr, sem þá er heðan fór; því at þessi kona er nú eigi allra færi sakir skaplyndis, enn þú sér sjálfr fyrir kosti þínum. Enn halda vil ek alt þat, sem ek hefi um mælt: enn þitt gjald mun vera, ef nökkut brestr í þar um. Er líklegt at vel verði, því at henni er allvel til þín; ok í hvert sinn, er þín er getit, þá segir hon, at enginn muni koma til jafns við þik. Enn gefa vil ek þér jarldóm til þess at synir mínir eru vel færir til við ríki at taka". Þorvaldr kveðst eigi þat vilja — „því at mér þykkir þá bezt komit, er þér varðveitit þar til at þeir taka við, enn mér er þat eigi hent, því at ek em eigi höfðingja ættar". Ok eftir þat var sent eftir móður Droplaugar, þeiri er Arneiðr hét. Grímr hét bróðir hennar, enn faðir hennar Helgi, danskr maðr, enn móðir þeira Hallerna. Þau systkin kómu þangat, ok er þeim sagðr þessi kaupmáli. Þeim kvaðst svo athyggjast, at eigi mundi annarr maklegri at njóta þessarrar konu enn þessi maðr, ok sögðust hér góðan þokka til mundu

leggja. Ok við þetta var Droplaug fest Þorvaldi með miklu fé. Var þá stofnuð veizla fríð; skorti hvárki tilföng nóg né fjölmenni mikit ok fór veizlan allvel fram. Ok at henni liðinni gaf Þorvaldr hverjum manni góðar gjafir; fekk hann svo miklar vinsældir, at nálega báðu allir menn honum góðs ok sat hann nú þar þenna vetr til þess at váraði. Þá keypti hann skip þat er uppi stóð í Þórsá ok færir þangat til stórfé ok konu sína Droplaugu. Váru góðar þeira samfarir, því at hvárt þeira veitti öðru vel, enn við aðra menn var hon fálát ok steigrlát, enn þó var hon afbragð annarra kvenna, bæði at yfirlitum ok atgervi. Arneiðr móðir hennar átti mörg skilgetin börn; ok var hon þá ekkja, er hon átti þessa sína dóttur Droplaugu; ok á þessu vári seldi hon sonum sínum í hendr bú sitt, enn gifti dóttur sína, er Gró hét. Enn Arneiðr réð sik í skip með Þorvaldi, ok vildi fylgja dóttur sinni til Íslands; Grimr Hallernuson fór ok með þeim. Ok er þau váru búin sigldu þau í haf ok fengu góð veðr ok hagstæð; tóku Ísland snemma sumars. Þau kómu þar skipinu, er Höfn heitir í Borgarfirði, fyrir sunnan Njarðvík. Frændr Þorvalds riðu margir til skips, þegar þeir spurðu útkvámu hans, ok fögnuðu honum vel ok buðu til sín meðr sæmd með því liði, er hann vildi at færi. Enn Ketill bróðir hans kom ekki til

skips; enda sendi Þorvaldr honum engin orð. Þá var Ketill kvángaðr og átti son, er Þorkell hét, ok var kallaðr fullspakr. Hann kemr lítt við þessa sögu, enn hann kemr þó enn við síðar.

7. Hallsteinn hét maðr. Hann bjó á þeim bæ, er í Jórvík heitir. Hann var ungr maðr ok var þá nýkvongaðr. Hann var skyldr þeim mjök Njarðvíkingum. Við þenna mann var Þorvaldr ástúðugastr áðr hann fór utan. Hann reið til skips, þegar hann spurði útkvámu Þorvalds, ok bauð honum með sér at vera um vetrinn með alt sitt föruneyti. Þat þektist Þorvaldr, ok fór þangat með fjórða mann, þjónustumann hans ok þjónustumey hennar, enn aðrir skipverjar vistuðust í herað upp. Skipit var upp sett ok umbúit. Líðr vetrinn, ok sitr Þorvaldr í Jórvík með yndi miklu. Ok um várit réðu frændr hans honum, at hann skyldi kalla til við Ketil bróður sinn, at taka við goðorði sínu ok mannaforráði. Enn Þorvaldr kvaðst eigi þat mundu gera, — „því at mér mun þat lítit tjá, þó at ek geri þat, ok vinn ek þat eigi til virðingar, at deila við frændr mína“. Þat er sagt, at Þorvaldr reið heiman við nökkura menn upp í herað ok vestr yfir Lagarfljót ok upp á strönd, ok alt þar til er hann kom á þann bæ er á Vallholti *heitir*. Þetta land var lítit at húsum, enn þó fullbýlis land; þat kaupir Þorvaldr með fé. Hann húsaði landit ok

efldi bústað þann, ok er sá bær góðr kallaðr síðan jafnan. Eftir þat tekr Arneiðr móðir hennar við búi fyrir innan stokk ok allri umsjá, er þá snúit nafni bæjarins ok kallat á Arneiðarstöðum. Sezt Þorvaldr þar í bú ok fekk hann brátt vinsældir miklar. Droplaug skifti sér ekki af ráðum; var hún ríkilát mjök; þótti mönnum mikils um hana vert. Enginn var Þorvaldr goðorðsmaðr, sem fyrr var ritat; enn þó var hann svá vinsæll, at nálega vildi svá hverr maðr sitja ok standa sem hann vildi. Frændr hans hyldust hann at mjök, enda gerði hann sér alla menn at vinum. Maðr hét Bersi ok var Özurarson; hann bjó í Fljótsdalsheraði; þat er fyrir vestan Lagarfljót, þar er heitir á Bessastöðum, við vatnsbotninn. Bersi átti tvau börn; hét sonr hans Ormsteinn, enn Þórlaug dóttir. Ormsteinn var kvángaðr, ok bjó á Víðivöllum hinum syðri; enn Þórlaug Bersadóttir var þá ung at aldri. Bersi var spekingr mikill ok kallaðr spak-Bersi, ok við hann er kendr bærinn á Bersastöðum. Við þenna mann leggr Þorvaldr heitt vinfengi, ok svá hverr við annan. Flestir fóru utan með skipinu, er út höfðu komit með Þorvaldi; því at hann sendi Björgólfi jarli skipit ok þar með mikinn íslenzkan varning. Grímr Hallernuson var eftir á Íslandi, því at hann vildi eigi utan fara. Hann keypti sér land þat er at Giljum heitir; þat er í Jök-

ulsdal neðanverðum. Hann bjó þar tvá vetr, ok þá tók Grímr Hallernuson sótt ok andaðist, ok tóku synir hans við búi ok fjárforráðum. Enn á hinum fyrstum misserum, er þau Þorvaldr ok Droplaug bjuggu á Arneiðarstöðum, þá fór hon kona eigi einsaman. Líða stundir fram í líkendum, ok þar til at hon ól barn, ok var þat sveinn. Hann var vatni ausinn ok nafn gefit ok kallaðr Helgi. Sá sveinn óx þar upp með föður sínum ok var hinn efnilegasti. Ok enn liðu stundir eigi langar, áðr þeim varð annars sonar auðit; ok var sá nefndr Grímr eftir Grími Hallernusyni. Uxu þeir nú þar upp báðir bræðr, ok var þeira tveggja vetra munr, báðir mjök efnilegir. Fjóra vetr var Arneiðr fyrir búi, áðr hún andaðist; er þar haugr hennar fyrir ofan garð ok utan. Þá tók Droplaug við öllum ráðum og varð henni þat vel í hag.

8. Gunnarr hét maðr. Hann var skyldr mjök Njarðvíkingum. Hann bað þeirar konu, er Rannveig er nefnd, ok var honum heitit konu. Býr hann þá veizlu ok býðr til mörgum mönnum. Þeim Þorvaldi ok Droplaugu var ok þangat boðit, og þeim mönnum er þau vildu, ok hétu þau ferðinni. Ok er at því kom, at þau skyldi fara, kvaddi Þorvaldr Droplaugu til ferðar með sér. Hon kvaðst hvergi fara mundu, -- „ok svá vilda ek at vit gerðim bæði“,

sagði hon. Þorvaldr spurði, hví hon væri svá hverflynd — „þar sem þú hétst sem ek“. Hon svarar: „Ekki ferr ek at því, ok biðr ek, at þú farir hvergi, því at mér segir svá hugr um, at oss verði lítil sæmd at boði þessu; ok ráðin em ek at fara alls hvergi; enn þú munt ráða þínum ferðum, þó at ek beiða annars um“. Þorvaldr svarar: „Eigi nenni ek at sýna svá mikla ómerki við frændr mína, þar sem vit hétum bæði; enn ek mundi hvergi fara, ef ek hefða eigi svá fastlega heitit“. Býr hann nú ferð sína. Enn hon varð hrygg mjök við þat. Þorvaldr ferr nú við hinn IX mann á einum teinæringi; hann var vápnaðr vel. Hon bað at hann mundi eftirláta sverðit, því at mér segir þungt hugr um þína ferð — „eigi fyrir því, einskis þykki mér vert sverðit hjá þér“. Þorvaldr sagði lítit mark at um hugboð manna — „ok hefir þú ekki þann veg látit fyrr, enn ekki er mér svá mikil elska á sverðinu, at ek megi eigi vel af því sjá“. Fer Þorvaldr nú til skips ok hon með honum, ok þykkir henni allmikit at skiljast við hann, ok gengr hon heim enn Þorvaldr siglir út eftir vatninu útsynnings veðr; styrmdi svá mjök, at Þorvaldr týndist í þessarri ferð, ok þeir allir, er með honum váru; enn þessi tíðendi spurðust brátt um heraðit ok þóttu mörgum mikil. Enn boðit fór vel fram alt at einu, er Gunnarr kvángaðist. Þau gerðu

bú út í heraði á þeim bæ, er á Bóndastöðum heitir ok bjuggu þar lengi. Ok þegar hin fyrstu misseri áttu þau barn; þat var dóttir, ok hét Þórdís; hon var efnileg ok vel ment. Enn á öðrum misserum áttu þau barn annat; þat var sveinn ok var nefndr Þorkell. Þessi börn þóttu bæði efnileg ok uxu þar upp. Þessi vóru elzt börn þeira; mörg áttu þau önnur börn ok koma þau eigi við þessa sögu. Þessi börn, áttu sér viðnefni ok var hann kallaðr Þorkell trani, enn hon Þórdís brestingr.

9. Svá er sagt, at Droplaug kunni illa falli Þorvalds ok annaðist mjök sjálf um fjárvarðveizlu. Enn er Bersi spurði þessi tíðindi, þá gerði hann heimanför sína út á Arneiðarstaði; enn Droplaug tók við honum forkunnar vel, sem hon var vön. Bersi mælti: „Þat er sem þú veizt, at vinskapr mikill var með okkr Þorvaldi, svá at hvárr unni öðrum. Vil ek nú bjóðast til fjárforræðis með þér; þar með býð ek Helga syni þínum til fóstrs, ok því heit ek þér með, at kenna honum slíkt mannvit sem ek kann. Droplaug kvaðst eigi nenna at drepa hendi við sæmd sveinanna — „enn þó er mér nú at þeim mest yndi allra manna“. Þá var Helgi sex vetra gamall, enn Grímr fjogra vetra; hvárrtveggi þeira var snemma roskinn. Þá svarar Helgi: „Svá ann ek mikit Grími bróður mínum, at ek má eigi við hann skilja; munu

vit annathvárt vera heima báðir eða fara burt báðir". Bersi svarar: „Gott þykki mér þat at vita, at ástúðlegt sé með ykkr; vil ek, at þit séuð þeim stundum með mér, er ykkr þykkir þat betra; ann ek ykkr þess jafnvel báðum". Helgi segir, at þeir mundu ýmist vera með honum eða heima til yndis við móður sína. Nú fara þeir upp með Bersa, ok er hann ástsamlegr til þeira bræðra, enn lagði þó meira stund á að kenna Helga íþróttir. Þeir váru þar löngum, meðan þeir váru ungir, enn því lengr heima sem þeir váru eldri. Sinn veg var hvárr þeira bræðra yfirlits. Grímr var hvítr ok hrokkinhárr, ok at öllu sjálegr; enn Helgi var mikill maðr vexti, ljósjarpr á hár ok rauðlitaðr, breiðleitr ok hinn kurteisasti, enn þat þótti helzt at yfirlitum Helga, at hann var munnljótr.

**10.** Þess er getit eitt sumar, at skip kom af hafi í Reyðarfjörð. Kona ein réð fyrir skipinu, sú er Gró hét; hon var systir Droplaugar, mjök rík at fé. Fór hon af því út hingat, at bóndi hennar hafði andazt, ok þá seldi hon lendur sínar ok keypti skip ok ætlaði at finna móður sína. Droplaug ríðr til skips, ok býðr systur sinni til sín ok þat þiggr hon. Ok þenna vetr, er Gró var þar, váru sveinarnir Helgi ok Grímr heima ok var Gró vel til þeira. Ástúðigt var með þessum frændum; fundu menn þat,

at hvárri þeira systra var yndi at annarri. Enn um várit spurði Gró Droplaugu, hvar hon sæi henni bústað. Hon svarar: „Veit ek þá menn, er sitja á góðum bústað með mikit lið enn fjárkost lítinn; þykki mér líklegt, at þeim muni falt land. Sá bær heitir á Eyvindará – þat er fyrir austan Lagarfljót — ok er eitthvert bjargmest land í heraði ok þokkaland allmikit“. Svá fór þat til, at þær systr keyptu þessa jörð. Ok setr Gró þar bú saman, ok fekk Droplaug henni málnytu og aðra þá hluti, er hon þyrfti at hafa til búsins. Gró lætr höggva upp skip sitt ok flytja heim viðinn ok leggja í hús, ok þeir viðir eru þar enn í húsum. Gró sýndi brátt af sér mikla risnu ok tók mikla vinsæld. Hon var kvenna minst, enn afbragðlega sjáleg; greip í skapi ok skörungr mikill ok forvitra. Hon hafði eigi lengi búit, áðr hon ól þann grip með fé sínu, er henni þótti betri enn önnur eiga sín jafnmikil; þat var hestr, er hon kallaði Inni-Krák, því at hann var inni hvern vetr; hann var svartr at lit; lét hon hann gelda snemma. Svá mikill fégróðr hljóp at Gró at Eyvindará, at nálega þóttu tvau höfuð á hverju kvikindi. Menn fóru ór ýmsum heruðum ok báðu Gró, ok hnekti hon öllum frá, ok kvaðst svá mist hafa bónda síns, at hon ætlaði öngvan mann at eiga síðan. Synir Droplaugar váru lengi með Gró, ok var þat mál manna, at þeir

ætti góðs í milli at ganga, at vera á þeim III bæjum, er beztir váru í heraðinu; ok var þeim þar allstaðar ástsamlega veitt. Þat bar til einn dag, at drepit var á dyr á Bersastöðum, ok Bersi bóndi fagnaði þeim sem komnir váru. Var þar Ásbjörn bóndi vestan af Aðalbóli ok Helgi son hans, ok fóru bónorðsför ok báðu Þorlaugar Bersadóttur til handa Helga Ásbjarnarsonar. Bersi hyggr at ok lízt svá, at eigi muni víst, at æðri maðr veldist til við hann til mægðar, þó at hon væri góðr kostr; því at Helgi var hinn vinsælasti maðr. Var þessu ráðit; leggr Ásbjörn til mannaforráðit alt ok fé svá mikit, sem Bersi beiddi. Var Helgi hinn sæmilegasti maðr. Eftir þat var at veizlu snúit ok víða mönnum til boðit um heraðit. Droplaugar synir váru eigi heima, ok váru út á Arneiðarstöðum. Bersi sendi þeim orð, at þeir skyldi koma til veizlunnar; enn þeim fanst fátt um ok létu sem þeir vissi eigi; fóru þeir ok hvergi ok sátu heima. Enn veizlan fór vel fram alt at einu. Ok upp frá því váru Droplaugar synir aldri langvistum á Bersastöðum, ok þat hafa margir fyrir satt, at Helga Droplaugarsyni væri eftirsjá at um gjaforð þessarrar konu. Eftir þetta setr Helgi Ásbjarnarson bú á Oddsstöðum, ok var vel um samfarir þeira. Tók Helgi Ásbjarnarson nú vinsældir miklar ok alt mannaforráð at helmingi við Hrafnkel frænda

sinn fyrir austan vatn. Þegar hin fyrstu misseri er þau váru ásamt varð þeim barns auðit. Þat var mær ok kölluð Ragnheiðr. Helgi sat á Oddsstöðum tvá vetr, ok unnust þau mikit ok vel; ok á hinum þriðja vetrinum beiddist hon at fara á kynnisleit upp á Bersastaði at finna föður sinn. Hon lét eftir meyna ok vandi af brjósti. Hon var uppi þar viku; ok þá þótti Helga mál at hon færi heim ok sendir eftir henni þræla tvá ok uxa. Þeir váru þar um nótt. Þá fell lognsnær um nóttina. Um morgininn fara þau heimleiðis. Þá var Helgi farinn ofan á drang þann er fram gengr af Oddsstaðahöfða. Sá hann þá, at þeir óku sunnan eftir ísinum ok í vök eina, ok druknuðu þau þar öll; þar heitir nú Þrælavík. Helgi sá upp á misfarar þeira ok þótti allmikit. Helgi gekk heim ok sagði tíðindin, ok þóttu mörgum mikil. Spurðust þessi tíðindi um alt heraðit. Ok er Bersi spurði þetta, þá bauð hann heim meynni Ragnheiði, ok fekk henni þar fóstr með sér; ætlaði hann þá, at Helgi mundi skjótara af hyggja, enn þat varð þó ekki. Enn hann sat þá enn tvá vetr at Oddsstöðum, ok þá eggjuðu menn hann at hann kvángaðist. Hann fór heiman ok norðr Smjörvatnsheiði til Vápnafjarðar ok kómu til Hofs; þar bjó sá maðr, er Bjarni hét ok var brodd-Helgason, hinn mesti skörungr ok höfðingi mikill. Hann átti sér systur, er

Þórdís hét. Hon var fríð kona ok vel ment; viðrnefni átti hon sér ok var kölluð Þórdís todda; því var hon svá kölluð, at hon gaf aldri minna enn stóra todda, þá er hon skyldi fátækum gefa, svá var hon örlát. Hon var skapstór ok skörungr mikill, skafinn drengr ok líkleg til góðs forgangs, enn þó var hon lítils virð heima: þessarrar konu bað Helgi Ásbjarnarson sér til handa. Bjarni gaf konuna: er þá boð stofnat ok sitja menn þar at veizlu, ok er boðinu var lokit, ríðr Helgi heim með konu sína Þórdísi. Tók hon þar við búi ok öllum forgangi: kölluðu margir, at þess væri vel fengit, sem síðan bar raun á, at hon var forvitra. Litlu síðar enn hann var kvángaðr, var honum kent barn. Þat hafði hann smíðat með an hann var kvánlauss. Þat var mær ok hét Rannveig. Matselja sú var móðirin, er Helgi hafði sett fyrir bú sitt. Þórdís tók við þessarri mey ok gerði svá til sem hon ætti; fæddist mærin þar ok var at öngu óásjálegri enn sú er skilgetin var: enn Þórdís lét þá konu þegar á burt ok fekk henni góða penninga. Á þetta lagðist mikil virðing, hversu vel Þórdísi fór þat sem mart annat. Ok er þau höfðu einn vetr ásamt verit, þá bað hon Helga selja land þetta, því at hon þóttist eigi halda mega risnu sinni fyrir atkvæmdar sakir „ok vilda ek, at þú keyptir landit í Mjóvanesi, því at

mér sýnist þá eigi jafnmjök í garðshliði". Þetta land kaupir Helgi ok ferr bygðum til, ok býr þar lengi síðan, þangat til at hann þóttist þar eigi mega sitja fyrir þeim tíðindum, er síðan gerðust.

**11.** Þórir hét maðr, er bjó í Mýnesi fyrir austan Lagarfljót. Sá bær stendr mjök í miðju heraði. Þar er einn bær í milli ok Eyvindarár, er Gró bjó, er heitir á Finnsstöðum Þórir var hægr maðr ok vinsæll. Hann var þá kvánlauss ok hafði svá lengi verit; hafði hann sett ýmsar matseljur fyrir bú sitt. Þorgrímr er nefndr leysingi einn; hann átti viðnefni ok var kallaðr tordýfill; hann hafði unnit sik burt ór þrældómi ok var áðr þræll fastr á fótum. Hann var heimamaðr Mýness-Þóris ok skyldr honum mjök. Þorgrímr var lítill maðr vexti ok kviklegr, orðmargr ok illorðr, heimskr ok illgjarn, ok ef hann heyrði nökkurn mann vel látinn, þæstist hann í móti ok mátti eigi heyra, varð hann þeim öllum nökkura flýtu at fá. Sá var siðr víða í fyrndinni, at lítt váru baðstofur, ok höfðu menn þá bakstrelda stóra: var þá víða gott til eldibranda, því at öll heruð váru full af skógum. Þá var ok svá húsaskipan, at hvert hús stóð af enda annars, enn öngvar stofur; þá var alt eitt, skáli sá er menn sátu í at mat, ok þar sváfu menn, ok stigu menn undir borð hverr ór sínu rúmi. Enn innar af skál-

anum váru lokhvílur, ok lágu þar í vildararmenn. Þat var eitt kveld um haust, er menn kómu heim frá heyverki ok eru gervir eldar stórir, ok kasta verkmenn klæðum ok bakast við eldana. Þórir lá upp frá eldinum á klæðin ok talaði við gesti sína. Þá tók Þorgrímr til orða ok mælti: „Oft mun at því koma, at vér megum vel við una, at vér höfum oss betr fengið húsbóndans enn flestir aðrir; munu vér ok þess mega vilnast, at hvergi mun slíkt atganga sem hér í Mýnesi. Eðr hvar viti þér húsfreyju þá er yðr þykki honum fullkosta, ok jafnvel hafi haldit risnu eftir sinn bónda, sem hann eftir sína húsfreyju?“ Allir þögðu ok svöruðu öngu. Þá svarar Þorgrímr sér sjálfr: „Allgott er þat at vita, at ek vinn yðr orðlausa, ok veldr þat því, at þit kunnið öngu at svara“ Sá húskarl svarar honum, er sat öðrum megin elds ok nauta var vanr at gæta. Hann mælti við Þorgrím: „Oft er þat um hagi þína, at þú rausar þat mart, er eigi kemr til þín: veit ek þá konu, er þat munu allir mæla, at hon muni skörungr vera með konum, sem Þórir með körlum, ok eigi minni rausn haldit eftir sinn bónda enn Þórir eftir sína húsfreyju, ok má ek segja hvar hon sitr. Farðu heiman vestr yfir Lagarfljót ok upp á Arneiðarstaði: þar býr sú kona, er Droplaug heitir, hana vitu vér bezt hafa setit eftir sinn bónda. Mun víðara mega

tiltaka; því at enginn mun hennar maki finnast á váru landi“, sagði húskarl, „ok þótt víðara sé“. Þorgrímr svarar: „Þat mun bezt at þegja nú ok taka fyrir belgjarmunnann; enn jafnan em ek málugr kallaðr, ok er vel, at þat komi at í kveld, at ek svari því, sem til liggr. Þá mættir þú þat mæla, at hon hafi vel unnat þeim bóndanum, er hon átti ok bezt hefir mentr verit í heraðinu, ef hon hefði eigi lagt Svart þræl sinn í rekkju hjá sér; ok þat er nú eigi færra manna orðrómr, at Helgi Droplaugarson muni vera son Svarts þræls enn Þorvalds“. Húskarl svarar: „Mikit telst þér á tungu, ok þat er öðrum þykir ómælanda; er þat líklegast, at þér taki um alt bak um síðir þat er þú lýgr“. Þórir heyrir til tals þeira ok tekr til orðs í því er hann sprettr upp — hann hafði sprota í hendi ok rekr um eyru Þorgrími ok bað hann þegja ok mæla eigi fleiri orð — „er þat líkara, at þér vefist tunga um höfuð. Enn bið ek alla þá, sem hér eru við staddir, ef þeir þykkjast nökkut mér eiga betr at launa enn Þorgrími, geri svá vel, at enginn reiði þessi orð“. Margir hétu góðu um þetta, at svá skyldi vera, sem hann beiddi; enn þó bar hinn veg raun á, at enn váru eigi allir svá þagmælskir, at þegði yfir með, ok kemr oft at því, sem mælt er, at ferr orð er um munn líðr. Þessi orð kómu upp á Arneiðarstaði til eyrna Droplaugar

ok sonum hennar. Þeir vóru þá eigi heima um daginn, er Droplaug spurði þetta; því at þeir höfðu þat jafnan til skemtanar, at fara at rjúpum ok báru heim byrðum. Þeir hendu at þessu mikit gaman, ok veiddu þeir ekki þann veg rjúpur sem aðrir menn; ekki höfðu þeir net, enn skutu með snærisspjótum. Þeir báru heim þetta kveld veiði ok færðu móður sinni sem þeir váru vanir. Hon var jafnan vön at taka vel við þeim, enn þó var nú venjubrigði. Hon var nú mjök hálfær, ok mælti fátt nema af stygð, þat er var; kvaðst aldri hirða, hvárt þeir bæri heim krækilfætr nökkurar — „man ek aldri búa at síðr, þó at þit farit ekki at slíku“. Helgi svarar: „Ekki mein er þér at þessu, móðir, því at þetta verðr okkr fyrir, ok má þetta vel gera til matar mönnum; verðr oss vandlifat; illa þykir, ef vér höfumst ekki at, eða höfum ólæti, ok er eigi víst, at vit getum svá gert at öllum líki vel“. Droplaug svarar: „Má ok vera við þessa iðn, er þú hefir, at Þorgrími tordýfli þykki þú meir segjast í ætt Svarts þræls, heldr enn í ætt Þorvalds Þiðrandasonar, eða annarra Njarðvíkinga, eða enn annarra þeirra, er mér þykkja flestir íslenzkir lítils virðir hjá þeim“. Helgi svarar: „Er svá, móðir, at ruglat er skapi þínu; enn hafðu ráð mitt at því, þó at þér þykki sem er, at ek em ungr. Skipaðu aldri skap þitt eftir hins

versta manns orðum; legg aldri trúnað þinn á slíkt, er enginn mun annarra. Mun Þorgrími tordýfli jafnan heima þat er ilt er, enn þik mun þetta saka ekki. Nú mun ek, móðir, hugga þik í fám orðum, at annathvárt mun vera, at mér mun ætlaðr aldr lítill, eða Fljótsdælir munu sjálfir segja, at ek em son Þorvalds Þiðrandasonar — margir skulu minni til þess reka —, enn eigi sonr Svarts þræls; biðr ek, at þú gerir þér eigi angr at slíku; því at svá mun ek gera". Þá var Helgi Droplaugarson tólf vetra gamall, ok svá vel þroskaðr, at margir váru þeir fulltíða at aldri, at bæði hafði Helgi við þeim afl ok þroska. Grímr var tíu vetra ok allvel mentr. Með þeim bræðrum var svá ástúðigt, at hvárgi vildi ganga ór húsi út, svá at annarr væri eftir. Hon snýr í burt af tali þessu ok inn. Þeir váru þar um vetrinn lengi áfram, ok var Droplaug aldri jafnblíð við þá sem áðr, ok gáfu þeir at því öngvan gaum; fóru fram sínu athæfi sem þeir váru vanir. Líðr af skammdegit. Þat var eina nótt, at tekit var á fótum Grími; þá var nýlýsi mikit. Hann spurði, hverr þar væri. Helgi svarar: „Láttu hljótt. Má ek aldri sofna. Vil ek at þú rísir upp, því at nú er svá ljóst, sem um dag; vil ek at þú farir með mér". „Hvat munu vit nú at rjúpum fara um nætr?" Helgi svarar: „Förum vit austr yfir vatn ok ofan til Eyvindarár,

at hitta Gró frændkonu okkra, því at mér leiðist fálæti móður minnar". Grímr sprettr upp ok klæðist ok ganga út síðan. Þeir váru svá búnir hversdaglega, at þeir váru í söluvaðmálskuflum mórendum; þar brækr at neðan; feldi höfðu þeir til yfirhafnar. Snærisspjót höfðu þeir í höndum, enn hvárrgi hafði afl at bera sverðit, svá var þat mikit. Þeir sneru ofan af velli á Arneiðarstöðum ok ofan á vatnsís. Þá mælti Grímr: „Hví snýr þú á ísana; ekki er þar ván rjúpna; snúum upp í heiði". Helgi svaraði: „Ekki ætla ek þann veg at fara, því at þar er svá stigt, at hvern dag er at farit; vil ek fara ís ofan til Vallaness, ok ofan á Völlu, yfir Grímsá, svá ofan til Eyvindarár. Þeir fóru þá leið, því at Helgi varð at ráða hvert sinn. Enn er þeir koma neðan í Vallanes, þá lýsti af degi. Síðan fara þeir út eftir skógum ok skortir eigi fugl at veiða ok veiddu þeir mart; þeir kómu út til Eyvindarár, er allljóst var, ok tekr Gró við þeim allvel ok varð þeim einkar fegin ok bað þá þar lengi at vera. Helgi játaði því. Eru þeir þar þennan dag. Aðra nótt, fyrir dag, er Helgi á fótum ok vekr upp Grím bróður sinn; kvað vera veðr gott at fara at rjúpum. Þeir ráðast til ferðar ok ganga upp ór garði ok upp hjá gerði því er heitir at Uppsölum, ok er þeir koma þar, þá snýr Helgi ofan á mýrar fyrir neðan skóga ok út eftir her-

aði. Grímr spurði, hví hann færi svá, — „veit ek, at eigi er fuglsins ván á svell eða mýrar, heldr er hans ván um skóga eða heiðar“. „Komit mun þar verða; þó mun ek fara út eftir brúnum fyrir ofan Finnsstaði og fyrir utan Mýnes ok út til Snæholtsskóga. Nú munum vit snúa upp til Tókastaða, ok svá utan með fjalli, ok heim til dögurðar til Eyvindarár. Hrím var fallit á ísana ok var vindlítit, ágætlega gott at ganga. Ok er þeir fara út eftir brúnum fyrir ofan Finnsstaði, þá lýsti af degi. Þeir sá út frá Mýnesi, hvar einn stakkgarðr stóð fram í vatnit Lagarfljót. Þennan stakkgarð átti Mýness-Þórir. Ok nú sjá þeir, at hestr stóð undir garðinum ok þar með tveir menn, ok gerði annarr hlass, enn annarr bar út heyit. Helgi mælti: „Menn eru þar niðri í nesinu, ok er eigi ólíkt Þorgrími tordýfli þat er á hlassinu er“. „Hvat mun þik varða, hvárt hann er eða annarr maðr“. Helgi svarar: „Mér er sagt, at hann hafi mælt við mik illmæli ok móður mína“. Grímr mælti: „Hvat sagðir þú við móður þína á hausti, at hon skyldi eigi skifta skap sitt eftir hins versta manns orðum; láttu nú eigi þat á þik falla“. Helgi svarar: „Kom, ok verð ek at finna hann; vil ek vita, hvort nökkut er einörð í honum, enn ekki mun ek gera honum til meins“.

12. Nú fara þeir ofan eftir svellunum. Auð-

kennd var ferð þeira Droplaugarsona bræðra, er þeir fóru úti. Hvárrgi vildi ganga í spor öðrum ok gengu þeir jafnfram, ok af því kendist för þeira, þó at langt sæi til. Inn við garðinn, á hlassinu, var Þorgrímr tordýfill, sem þeir höfðu sét, enn nautamaðrinn var í garðinum uppi, sá er orðaskifti átti við hann. Þorgrímr mælti þá við hann: „Menn fara þar ofan eftir brúnunum fyrir ofan Finnsstaði. Þeir fara frálega; þykki mér líkt þeim Droplaugarsonum ofan af Arneiðarstöðum“. Húskarl svarar: „Hvat mun okkr varða, hvat þeir fara; eru þeir vaskir sveinar ok meinlausir, ok er öngum mein at ferðum þeira“. „Aldri veit ek þat“, sagði Þorgrímr, „get ek at þeir vili mik finna“. „Hví mun þat sæta“, sagði húskarl, „eða hvat munu þeir vilja?“ Þorgrímr mælti. „Manstu eigi hvat vit töluðum á hausti vit eldinn?“ Húskarl svarar: „Hvat mun nú undir því? Hugða ek at þat mundi óvíða farit hafa“. „Ekki skaltu þat ætla“, sagði Þorgrímr, „veit ek, at þau orð eru komin upp á Arneiðarstaði til eyrna Droplaugar ok sonum hennar. Er mér sagt, at þau hafi beisk við orðit, ok hafi hon eggjat Helga á hendr mér; get ek at hann muni nú ætla at reka þess réttar. ok þat get ek, at ek bíða þess eigi ór stað þessa vanréttis, ok mun ek beita hestinn frá hlassinu ok ríða heim í Mýnes, ok em ek þá hirðr, enn ek sé glögt, at þessir menn

snúa hingat". „Ekki munda ek þat gera", segir húskarl, „taktu heldr tindlur ór sleðanum, ok hafðu upp í garðinn, ok brjótum kleggjann undir fætr okkr; eru þeir ungir báðir, ok munu þeir ekki geta at gert við okkr, ef vit neytumst duganda". Þorgrímr svarar: „Ekki get ek hætta mega undir fjándr þessa, því svá at eins lízt mér á þessa menn, at þeim muni duga vel hendr ok hjarta, ok munu þeir geta sótta okkr með skotum, því at þeir hafa alt þat er þeir skjóta til, bæði menn og fugla" — tekr nú hestinn ok hleypr á bak; hann hefir vönd í hendi ok berr á tvær hliðar. Húskarl mælti: „Illa er slíkum mönnum farit sem þú ert, mælir rán ok regin við hvern mann, enn þorir öngu í gegn at ganga, ef eftir er leitat: ætla ek þat sannast, at þú sér bæði dáðlaus ok deighugaðr. Hér mun ek bíða ok vita, hvat þeir vilja". Þorgrímr hrökkr hestinn ok hleypir þvers upp ór nesinu. Hann víkr hestinum suðr til móts við þá, bregðr upp hendinni ok veifir; hann setr þá upp óp mikit ok þóttist spotta þá. Helgi sér þetta ok þótti illa: steypir hann af sér feldinum ok hleypr til móts við Þorgrím tordýfil. Ok þegar hann þóttist í skotfæri við hann, skaut hann til hans spjóti. Þat leitar sér staðar ok flýgr undir hönd Þorgrími ok kemr út undir annarri; fellr hann þegar dauðr til jarðar. Þá tók Helgi hestinn ok leiðir þangat til: lætr Þor-

grím á bak, Grímr styðr hann, enn Helgi leiðir hestinn ofan til stakkgarðsins; þeir heilsa húskarli vel; hann tekr því glaðlega. Helgi mælti: „Nú höfum vér drepit hér mann frá verki með þér, ok er nú verkit óunnit, ok munu vit taka við at vinna með þér". Enn hann svarar: „Einkis þarf ek með. Tel ek eigi mér þetta harmsök; því at ek get, at þat tali flestir menn, at honum mundi þessa fyrir löngu ván. Mun ek ekki vinna at ákafara, þó at þetta hafi í orðit; farið þit heim þann veg, sem ykkr gegnir bezt". Helgi mælti: „Þorgrímr vill vera í ferð með þér heim, því at hann þykkist eigi einfærr". Hann tekr reip ór sleðanum og bindr hann á bak fram við sil-ann. Tordýfill sitr nú heldr gneipr á baki. Þeir fara nú bræðr heim til Eyvindarár; enn húskarl gerir hlassit ok vinnr slíkt, er hann vill. Enn síðan fór hann heim, ekr hlassinu at vindauganu ok berr inn, ok eftir þat gefr hann hestinum ok brynnir, enn Þorgrímr sitr á bak á meðan. Ok er húskarl hefir dvalit daginn, sem hann vill, þá gengr hann inn, er hann hefir mokat fjós ok drepit á völl, enn Þorgrímr sat á baki einart meðan. Þórir bóndi var þá undir borð kominn ok var þá nær hádegi. Hann segir þá Þóri tíðindin. Þórir spurði hví hann hefði svá lengi dvalit. Hann segir, at hann ætti mikit at gera, — „enn mér þótti lítils um vert, þó

at skítfuglinn væri drepinn". Þórir sprettr þá undan borðum ok kveðr tvá menn til farar með sér ok lætr söðla hesta. Droplaugarsynir kómu heim til Eyvindarár ok sögðu Gró þessi tíðindi. Gró kvað þat vel orðit — „enn þó þykki mér þú frændi snemma taka til manndrápanna". Þetta víg kalla menn Helga fyrst hafa vegit. Gró bað þá skamma stund dveljast — „þit skuluð ríða nú heim á Arneiðarstaði" — þeir stíga þá á bak Inni-Krák — „því at ek get, at Þórir komi hér í dag at vitja ykkar; munu vit semja mál með okkr, enn þit farið nú vel". Þeir koma heim á Arneiðarstaði, ok er móðir þeira þá í kátara lagi; hon heilsar þeim vel ok spurði tíðinda. Þeir segja alls engin. „Hvat er í veiðum, síðan þit fóruð heiman?" Helgi svarar: „Smátt er í veiðum móðir, veidda ek tordýfil einn". Hon svarar: „Þat er lítil veiðr, því at þat er lítill fugl, enn njóttu heill handa; því at þann einn muntu veitt hafa, at mér mun mikil aufúsa á vera". Enn miklu var hon nú fleiri til sveinanna enn áðr. Þórir ríðr nú heiman með félaga sína ok kemr til Eyvindarár ok drepr þar á dyrr ok bað Gró til hurðar ganga. Hon gerir svá ok heilsar þeim vel. Þórir tekr því heldr seint ok spurði at Droplaugarsonum. Hon segir þá eigi þar vera — „enn þó er sem þeir sé hér. Þat sem til tíðinda hefir orðið í ferð þeira, þá vil ek

taka máli fyrir þá. Gerðu fé svá mikit sem þú vilt, enn ek mun bæta, því at oss þykkir lítils vert um eins þræls dráp, heldr enn þat fari í manna munna. Enn vit höfum átt vinskap saman góðan, síðan ek kom hingat til lands. Ætla ek, at enn skyldi svá vera. Er þetta eigi stærra mál enn svá, at vit megum þetta vel semja". Þórir segir þat vel meg a, — „því at marga hluti hefir þú vel til mín gert, ok ráð sjálfr fyrir þessum bótum". Gróa gekk þá inn ok kom út með svá mikit fé, sem vant er að bæta þræla. Hon gaf Þóri fingrgull ok bað sveinunum virkta. Þótti henni sér veittr vinskapr, ef hann héldi sátt við sveinana. Þórir kvað svá vera skyldu sem hon beiddi. Reið hann heim við svá búit.

13. Maðr er nefndr Nollarr. Hann bjó á þeim bæ, er heitir á Nollarsstöðum; þat er hit næsta Arneiðarstöðum. Nollarr átti fé lítit, enn mikla ómegð, ok hafði þat mest til atvinnu er hann leigði Hann var verkmaðr mikill, svartr maðr, manna mestr, kvittinn var hann, illorðr ok óvinsæll, ok í öllu var hann óþokkamaðr. Hann var bróðir Þorgríms tordýfils. Í öngu var Nollarr vinsæll. Hann spurði tíðindi þessi, er gerzt höfðu í heraðinu; hann gerði för sína, ok ferr um nótt til Mjóvaness ok finnr Helga Ásbjarnarson ok biðr hann taka við málinu. Helgi svarar því óbrátt, kvað ekki mart milli þeira Droplaugarsona, sagðist ekki hirða at þeim

yrði slíkt til — „þykki mér, sem Þórir eigi málit. Mun hann gera þér nökkurn sóma, enn þú ert nábúi þeira bræðra ok munu þeir vera þér ásjámenn“. Nollarr svarar: „Því fór ek á þeira fund, at þú ert várr höfðingi; þykki mér þú skyldastr til að losa vandræði manna í heraðinu, þó at eigi falli jafnstórt til sem nú er orðit; enn ella er ekki skot til þín“. Helgi mælti: „Farðu á burt, ok vil ek ekki veita þína bæn, því at mér þykkir menn vel til valdir, þó at þit séuð bræðr, at þungt fái af“. Nollarr ferr á burt, ok þykkir sín för ill orðin, ok segir Helga því oft lítinn hlut mundu hafa fyrir Droplaugarsonum — „ef þeim skal aldri refsa sín ókynni“. Nollarr leggr á þá bræðr mikinn óþokka; þeir létu sem þeir vissi þat eigi. Þorbjörn hét maðr; hann bjó á Skeggjastöðum; þat er út hit næsta Nollarsstöðum, enn suðr frá Ási. Hann hafði verit kvángaðr, enn þá var hon önduð. Hann átti dóttur eina, er Helga hét; hon var væn ok vitr. Þorbjörn var vel fjáreigandi, vinsæll maðr ok góðr bóndi ok þá við aldr. Bersi hinn spaki var vin Þorbjarnar ok þá oft heimboð at honum ok gjafir, enn Bersi hafði gefit Helgu marga góða gripi, ok var þat orð á, at honum þætti sjá kona betri enn aðrar, síðan hans kona var önduð. Enn á þeim misserum var þat mælt, at Helgi Droplaugarson legði þangat kvámur sínar til Helgu Þorbjarn-

ardóttur, ok ekki var þat kallat henni um þveran hug, sem raun bar nökkut á; því at þá er þeir bræðr höfðu tvær nætr heima verit, þá tekr Helgi Inni-Krák ok beitti fyrir sleða; hann lætr koma húð í sleðann ok kvaddi Grím til ferðar með sér; snúa síðan ofan á ís. Þeir fara út eftir ísinum, alt fyrir Skeggjastaði, snúa til bæjar, láta þar hestinn úti í túni ok kasta heyi fyrir. Þeir bræðr ganga inn í stofu. Heilsar Helga þeim vel ok sezt Helgi niðr hjá henni; ok er þau töluðu sín á meðal, þá beiddi hann, at hon mundi fara ofan til Eyvindarár ok vera þar um vetrinn. Þessu játar hon. Ok er þau töluðu þetta sín í milli, þá kemr þar inn maðr einn; sá var í svörtum kufli. Þar var Nollarr; hann reikar utar ok innar eftir gólfinu ok lætr slúta höttinn. Enn þá er minzt er ván, hleypr hann fram ok ofan eftir vellinum, ok svá ofan at vatni. Þar stendr steinn undir bakkanum; þar kastar hann klæðum ok leggr upp á steininn. Síðan skýtr hann beinspýtum undir sik, hleypr síðan upp eftir vatni, slíkt er fara má. Um hádegisskeið kemr hann upp á Bersastaði; hann var í ‚kodsis' brókum. Enn svá hafði hann fljótt farit, at þat var með megni. Bersi heilsar honum vel ok spyrr, hví hann færi svá mikit. Nollarr svarar: „Því, at ærin er nauðsyn, ok ferr ek ekki síðr þinna vegna enn minna". „Hvat er þat", sagði Bersi. „Helgi fóstri þinn er kominn

á Skeggjastaði út, ok ætlar hann at fífla Helgu Þorbjarnardóttur út til Eyvindarár, ok leggja hana í sæng hjá sér, enn þar kemr at því sem mælt er, at betra er véltum at vera, enn öngum at trúa, því at þú hefir trúat honum sem sjálfum þér. Má þat ekki í einu orði telja, hvern sóma þú hefir honum gert, enn hann launar því sem hann hefir gnægzt til, ilsku ok undirhyggju“. Bersi brosti at ok mælti: „Hví segir þú mér þessi tíðindi, heldr enn öðrum mönnum?“ Nollarr svarar: „Því at ek ætlaða, at þér mundi helzt undir þykkja ok umhugat; því at þat er alþýðu rómr, at þér þykki hon betri enn aðrar konur“. Bersi svarar: „Þat hefir jafnt verit mátulega í hóf stilt, ok þó at Helga væri gefin fóstra mínum, þá þætti mér þar fríð kona vel gefin hraustum manni. Enn þó get ek at honum þykki sér þat oflágt fyrir mannvirðingar sakir. Enn þann einn vinskap hefi ek átt við Helgu, at hvártki hefir spilzt fyrir því; hefir ek af því gefit henni gjafir, at faðir hennar hefir gefit mér góða gripi. Nú farðu og seg öðrum þessi tíðindi þín, því eigi deyfist hugr minn við mart“. Nollarr svarar: „Satt er þat þó at segja, at útlifat hafa nú kappar Fljótsdæla, er þeir láta eitt sveinsníki taka af sér konur, þar sem þú ert svá ærr fyrir henni, at þú gáir einskis. Mun ek láta af at segja þér, þó at ek verði viss, at þú

lætr sem þú vitir eigi, þó at þér sé sneypa ger. Reynist þá skaplyndi yðart, er eigi er við þá um at eiga, er yðr þykkir dælt við; er ok því síðr dáð í yðr, er meir er á yðr leitat". Bersi svarar: „Þat veit ek at þér mun fara sem Þorgrími bróður þínum, at þú mælir til óhelgi þér, ef þú nytir þér eigi betri manna við". Bersi sprettr þá upp; kvaddi menn til ferðar með sér. Þeir taka hesta Bersa tvá ok leggja á söðla. Ríðr Bersi ok annarr maðr með honum, enn tveir ganga hjá; Nollarr var hinn fimti. Þeir fara út eftir ísum; færð var góð ok allkalt ok strauk mjök við. Þau Helgi og Helga sátu á tali mjök til annars litar. Þá bað Helgi at hon mundi búast, — „því at langt er út til Eyvindarár, enn ek vil eigi koma þar um nótt". Helga litaðist þá um: „Hvárt var ekki Nollarr hér í morgin á gólfi um hríð?" Helgi mælti: „Þat ætla ek víst, at hann væri hér, ok skjótt hefir hann nú burt horfit". „Kynlegt þykki mér, ef hann þykkist eigi víss orðinn nökkurra tíðinda; mun ek hvergi fara daglangt, því at ek get hann þangat njósnir þær borit hafa, at mér þætti vel, at hann yrði lygimaðr af". Helgi svarar: „Gerðu sem þú vilt, enn þat segir ek þér, sem ek mun efna, at eigi ferr ek eftir þér annan dag". Helga svarar: „Vel er, þótt þú ráðir því, enn hvergi ferr ek at sinni". Helgi gengr þá út ok sezt í sleða, enn Grímr ferr á

bak; fara þeir nú út eftir ísum. Nú sjá þeir bræðr, at menn fara sunnan eftir vatni fyrir Nollarsstöðum; þeir kenna nú mennina. Nú tekr Nollarr til orða: „Bersi, nú máttu sjá, hvárt ek hefi nökkut logit til; þar fara þau nú út eftir ísunum frá Skeggjastöðum; ríðr Grímr fyrir, enn þau Helga sitja í sleða. Er nú svá at ek tek at þreytast; vilda ek at þú leyfðir mér at fara heim, því at ek á mart at gera; enn ek er einn til“. Bersi svarar: „Farðu hvert er þú vilt; ætla ek sjaldan at kveðja þik til ferðar með mér, ok óþökk skaltu af mér hafa fyrir þessa ferð“. Nollarr snýr nú heim til bæjar síns, enn þeir Bersi fara út eftir ísum, mikit tölt. Þeir bræðr fara út undan — fara hvárirtveggju með hinu vestra landinu — unz þeir koma fyrir nes þat er gengr vestan í Lagarfljót ok heitir Meðalnes. Utan í nesinu stendr bær, er heitir á Hreiðarsstöðum. Þar er nú sauðahús. Þar bjó sá maðr er Hreiðarr hét; hann var landnámsmaðr ok vinr mikill Bersa ok Droplaugarsona. Hreiðarr var hinn bezti bóndi ok hinn vænsti maðr; heldr var hann nú við aldr ok hafði þar búit langa æfi. Fyrir nesit váru alt vakar; þar bryndi Hreiðarr nautum sínum. Ok er þeir bræðr kómu at vökinni, þá segir Helgi, at þeir mundu brynna hesti sínum. Þá var mjök hálfrokkit. Þeir gera svá. Þá mælti Helgi, at þeir mundu hlaupa upp í skóginn.

Þeir bregða knífum sínum ok kvista viðinn. Helgi bendi ok gerir sýlt í neðan; þá bindr Helgi á bak hestinum fram við silann ok niðr undir kvið; hríslu bindr hann í tagl, ok leggr upp tauma ok mælti, at hann skuli fara ofan til Eyvindarár. Hríslunni hrökkr um kríka hestinum ok hleypr hann því harðara ofan eftir ísunum. Þeir bræðr hlaupa upp í skóginn. Helgi brýtr sér völur tvær ok gerir kvistlausar; hann hefir þetta í hendi sér. Nú koma þeir Bersi at vökunum, ok er þeir koma sunnan fyrit nesit, þá taka til orða huskarlar Bersa: „Eigi veit ek, hverju sá hælir, er þessa menn segir hughvata, þar er þeir renna undan þeim manni, er þeim hefir beztr verit alla æfi. Nú ætlum vér aldri dáð í þessum mönnum“. Bersi mælti: „Þetta er mikil heimska, er þit mælið; get ek heldr, at hinn veg beri raun á, at þeir verði fám líkir um hríð. Nú vil ek, at þit farið heim á bæinn á Hreiðarsstöðum, enn ek mun ríða eftir þeim bræðrum við annan mann, því at ek væntir þess, at sá einn verði fundr várr ok þeira bræðra, at ek mun ekki mannflokka við þurfa, því at hér hafa hvárigir heiftarhug á öðrum; enn þit bíðið mín hér meðan, til þess er ek kem hér á morgin. Húskarlar verða þessu fegnir, ok taka við klæðum sínum, ganga til húss ok hlæja allmjök, ok kváðust aldri því líka menn hafa sét — „er hleypa undan því

meira, sem meir líðr á daginn". Bersi hrökkvir hestinn út eftir vatninu. Húskarlar gengu at vökunum ok lögðust at niðr ok drukku, er þeim var heitt orðit við gönguna; lögðu vápnin niðr á fötin, þau er þeir höfðu um daginn. Þeir váru í stakki ok brókum. Þá mælti Helgi: „Hlaupu vit nú ofan at þeim ok tökum þá ok veitum þeim harmkvæli nökkur; þeir hafa okkr mjök gabbat". Grímr svarar: „Aldri geri ek þat, því vit eigum engum manni betr at launa enn Bersa; hefir hann okkr metit umfram alla menn aðra". „Svá skal vera", segir Helgi, „hans skal at njóta, því at hann er vinr minn, enn hafa skulu þeir nú erendi ellegar, enn munum svá fyrir sjá, at þá saki ekki til lengdar. Enn vita skulu þeir, at vit eigum alls kosti við þá". Nú varð svá at vera, sem Helgi vildi. Þeir hlaupa ofan á ísinn. Tekr sinn mann hvárr þeira bræðra. Grímr fekk ekki at þeim gert, er hann tók, annat enn þat, at hann helt honum undir sér. Helgi veitir þeim umbúð, er hann vélar um, svá at hann snarar saman hendr á víxl á kviðnum, enn hneppir höfuðit aftr á meðal fótanna, skýtr völunni í knésbætrnar, nemr þá við hnakkabeininu. Nú ferr hann til með Grími ok býr um svá sem hinn fyrra, breiða yfir þá klæðin ok ganga svá til bæjar á Hreiðarsstöðum, drepa þar á dyrr ok biðja Hreiðarr út ganga. Hann gerir

svá, ok heilsar þeim vel, býðr þeim þar at vera. „Oft er þess kostr“, segir Helgi, „enn vit förum jafnan síð ok skulu vit heim í kveld, enn þó þykkjumst ek enn við þurfa, því at glófar mínir liggja niðr við nautabrúna, enn nú gengr til hafs, ok þykki mér dritlegt; vilda ek, at þú takir upp í kveld ok hafir heim með þér þá er þú brynnir nautum þínum“. Hreiðarr var sá einn maðr, at hann háttaði aldri fyrr enn þriðjungr var af nótt, enn lá alt til hádegis. Hreiðarr gekk inn, enn þeir bræðr gengu suðr til Hofs ok svá fyrir neðan Skeggjastaði; þá gerir á veðr ok tekr at drífa ok nú gerir á hit mesta illveðr. Þá snýr Helgi til bæjar á Nollarsstöðum — „vil ek ganga með bæjum, enn eigi eftir ísum, því at mér þykir villufært. Helgi drepr þar á dyrr. Þá var liðit dagsetr. Nollarr ríss upp ór rekkju sinni ok steypir á sik stakki ok gengr til hurðar, ok þegar hann lýkr upp hurðinni, þá þrífr Helgi í hönd honum ok kippir út í illviðrit. Grímr tekr í aðra hönd honum ok leiða hann at viðkestinum; fletta stakkinum fram yfir höfuðit. Grímr stendr á fyrir framan höfuðit, enn Helgi hnykkir einum sviga ór kestinum ok hýðir Nollar, svá at hvergi var heil húð hans milli hæls ok hnakka. Þá létu þeir hann standa upp ok báðu hann fara burt frá þeim — „skaltu hafa þetta fyrir hlaup þitt, ok bíð svá verra“. Þeir fara ok snúa nú heim-

leiðis, koma svá heim er mikit var af nótt; tekr Droplaug við þeim báðum höndum, sem hon var jafnan vön. Bersi reið um kveldit til þess er hann kom til Eyvindarár. Nökkuru fyrri kom Inni-Krákr; enn í þessu kom griðkona ór fjósi ok sagði Gró, at Inni-Krákr var kominn heim með undarlegan búning. Gró gengr út, ok húskarl með henni, ok taka Inni-Krák ok beita frá sleðanum, brynna ok gefa honum; síðan leysir hann ór sleðanum rekendina. Þá kemr Bersi í tún. Gró fagnar honum með blíðu. Bersi þekkist þat ok spurði, hvárt þeir væri þar komnir frændr hennar. Hon segir, at þat væri eigi, — „eða hversu stenzt af um ferðir þínar". Bersi segir alla sögu, sem farit hefir. Bersi var þar um nóttina; veitir Gró þeim allalvarlega. Gró biðr þeim virkta við ok mælti, at hann skuli veita þeim vinskap. Bersi segir at svá skuli vera. Hreiðarr sat við fornsögu, til þess er liðit var dagsetr. Þá fór hann út ok gaf nautum sínum. Eftir þat rekr hann þær til brunns. Honum kemr þá í hug, hvat Helgi mælti við hann; snýr at vatninu ok at vökunum, finnr eigi glófana, sér þar bandknútu þessa er þar lágu; leysir hann þá; eru þeir svá stirðir sem stokkar. Ferr Hreiðarr heim eftir eyk, ok ekr þeim heim til bæjar; hann hjúkar þeim við ok hressast þeir vel. Þeir váru þar um nóttina. Um morgininn býst

Bersi heiman frá Eyvindará. Gró gaf honum fingrgull ok seilamöttul ok mælti til fullkominnar vináttu við Bersa. Ríðr hann þar til er hann kemr á Hreiðarsstaði. Hreiðarr tók við Bersa forkunnar vel. Sögðu húskarlar hans sínar eigi sléttar. Bersi hljó mjök at, kvað gleðibragð vera ungra manna — „enn er víst, at þeir hafi sýnt þat, at þeir hafa alls kosti við ykkr, enn látit mín at njóta, er þeir hafa eigi meira at gert við ykkr; því at ærnar sakir gerðu þit til, þó at þeir hefði drepit ykkr. Nú skulu þit láta vera kyrt". „Svá munu vit gera", sögðu þeir. Fara heim eftir þat; fara upp eftir ísunum, þar til er þeir koma fyrir Nollarsstaði. Þar sjá þeir Nollar sitja á hyrnishrúku sem hundr ok er allhlámáll. Hann biðr Bersa at hann mundi rétta málit, slíkar hrakningar sem hann hefir fengit. Bersi kvað þat maklegt, þó at hann hefði nokkurt bráðræði fengit, enn þó má ek eftir leita, þó at þú sért ómaklegr". Nollarr dragnar heim, enn Bersi ríðr, þar til er hann kemr á Arneiðarstaði. Þá var í annan lit. Þeir Droplaugarsynir váru í túninu úti ok buðu honum þar at liggja ok urðu fegnir fóstra sínum, er hann var þar kominn. Bersi þektist þat ok var hann þar um nóttina. Enn um morgininn þá ræða þeir mart ok flest um þessa hluti, er hann hafði farit eftir þeim bræðrum. „Enn ek hefi því gert ferð mína eft-

ir ykkr, at ek vil at þit varizt þat, sem ek mun segja ykkr, at þit látið eigi vánda menn komast í milli ykkar ok mín; því at þit munuð ekki til þess taka, at ek muni ykkr af hendi gefa, meðan þit veitið eigi mér ágang eða Ormsteini syni mínum, enn ef ykkr greinir á, þá mun ek í jafnan stað leggja. Mun ek með ykkr, við hvern sem þit eiguð í heraðinu, aðra enn við konu þá, er þú hefir lagt tal þitt við; þá gerðu fyrir mínar sakir; grandalaust hefir verit okkart vinfengi. Mun ek alt at einu halda vinskap við þau á Skeggjastöðum, þótt þér gerið af yðru ráði slíkt sem yðr líkar". Helgi svarar: „Eigi veit ek, at þar þurfi um at vanda heðan í frá". Bersi mælti: „Þat vilda ek, at þit fengið Nollar kvikindi nökkurt fyrir *þat* harðrétti, er þit hafið honum veitt, þó at hann hefði maklegleika til". Helgi segir, at þat skuli víst gera fyrir hans orð. Bersi býst heiman við sína menn. Helgi gaf Bersa uxa tvá, fimm vetra gamla, gráir báðir, ok stóðhest rauðan ok var kallaðr Heiðarrauðr ok með merar þrjár. Hvárum þeira húskarla Bersa, er þeir höfðu knept við vakirnar, gaf Helgi, öðrum sverð, enn öðrum öxi. Skildust þeir vinir. Fór Bersi heim. Enn þeir bræðr sátu heima um hríð. Helgi leitar aldri á þá konu oftar, ok öngva aðra, svá at menn viti. Er þat ok alþýðu manna sögn, at Helgi hafi öngva konu elskat.

14. Þess er getit eitt sumar, at skip kom af hafi í Gautavík í Berufirði. Skipi þessu fylgdu þrændskir menn ok vistuðust hér um vetrinn. Á því sama vári eftir vetr afliðinn beiddi Þiðrandi Geitisson fóstra sinn fararefna — „vil ek kynna mér siðu annarra manna“. Hróarr svarar: „Þat þykki mér mikit, ef þú vilt fara af landi í burt, því at ek gerist mjök hrumr af elli, ok veit ek eigi hvárt þú kemr aftr. Enn alt at einu, þá skal ek sæma þik at því, sem ek hefir föng á; enn biðja vil ek, at þú komir sem fyrst aftr. Enn þú munt ráða“. Hróarr Tungu-goði fekk Þiðranda mikit fé. Honum þótti mikit er þeir skildu, ok öllum þótti mikil hans fráför. Réðst Þiðrandi til ferðar ok ferr suðr yfir heiði, ræðr sik í skip, ferr utan um sumarit. Þeim byrjaði vel ok skjótt; þeir kómu skipinu í Þrándheim í Niðarós. Þá réð Hákon hinn ríki fyrir Noregi. Hann hafði atsetu at Hlöðum. Þá sýndist, hverja menning Þiðrandi hafði hlotit, því at öllum mönnum fundust orð um, at eigi hefði þvílíkr maðr komit í manna minnum, sem Þiðrandi var. Hann ferr á fund Hákonar jarls. Jarl tók við honum vel ok setti hann í hásæti hjá sér ok veitir honum af mikilli blíðu um vetrinn. Hann virði öngvan sinna manna jafnan Þiðranda. Þeir töluðu löngum. Þiðrandi sýndi slíkt af sér, at unni honum hverr maðr

hugástum. Enn er vár kom, þá beiddi Þiðrandi sér fararleyfis út til Íslands. Jarl spurði, hví hann vildi svá litla stund dvelja við þar, — „því at ek ann þér hér allvel vistar; hefir hér enginn sá maðr komit, at mér þykki svá mikil eftirsjá at sem um þik, ef þú ferr á burt“. „Vel hefir þú til mín gert þessa stund, enn þó má ek eigi nýta at vera hér lengr, því at ek ann móður minni svá mikit, at ek hlýt at fara nú fyrst. Má yðr þat segja, at þar eru enn þeir menn, at létu sem bezt þætti, at ek kæma fyrr aftr enn síðar“. Jarl svarar: „Svá skal nú vera“. Þiðrandi kaupir sér skip ok lætr í koma mikit fé; hann þiggr af jarli góðar gjafir; eftir þat láta þeir ór landfestum ok sigla í haf. Þat hafa margir fyrir satt, at Þiðrandi hafi *óvirt* skaplyndi jarls fyrir sumar greinar, ok vildi af því eigi lengr vera með honum. Þiðrandi fekk þat sumar góða byri, ok kom skipi sínu í Skálavík í Vápnafirði ok bar af skipinu ok flutti heim varninginn. Eftir þat býr hann um skipit ok setr upp. Hann fór heim í Krossavík. Þar var tekit við honum forkunnar vel ok með allri blíðu; verðr þar ok fagnafundr mikill með þeim Þiðranda ok Hróari. Hann er þar fár nætr áðr enn Hróarr lýsir því, at hann vill at Þiðrandi fari austr með honum til eigna sinna ok ríkis — „því at ek má eigi annat enn vera ásamt með Þiðranda, svá ann ek honum

mikit, ok hver stund þykki mér löng, ef hann er eigi hjá mér“. Þiðrandi segir, at þat skuli þegar vera, er hann vildi, — „því at ek vil þess njóta, meðan kostr er“. Býr Þiðrandi ferð sína, ferr með Hróari austr til Hofs í Hróarstungu; urðu frændr hans honum fegnir, þar sem þeir kómu í Vápnafirði. Allir frændr Þiðranda sýndu á sér mikinn feginsþokka, er hann var aftr kominn með virðingu. Ketill þrymr sendi orð Þiðranda systursyni sínum, at hann skuli koma í Njarðvík til heimboðs, ok segir, at hann skuli eigi til einskis fara — „því at hann er sá einn minna frænda, at mér er mest aufúsa at eiga mart við ok gott“. Þiðrandi heitr ferðinni, er áliði sumarit ok heyverkum er lokit, enn kvaðst þá eigi tóm eiga at, því at hann hafði fyrr heitit öðrum. Ketill segir, at Þiðranda færi vel. Maðr hét Ásbjörn; hann var sunnlenzkr ok þá nýkominn í Fljótsdalsherað. Hann var fæðingi suðr í Flóa. Hann fór þaðan austr á Rangárvöllu, þá austr á Síðu, ok léttir eigi fyrr enn hann kemr austr í Fljótsdal. Hann tekr sér þar vist. Ásbjörn var mikill maðr vexti, dökkr á hárslit, ljótr í andliti ok heldr óþokkulegr; þó slægði marga menn til at taka við honum, því at hann var garðlagsmaðr svá mikill, at enginn lagði lag við hann. Ásbjörn átti viðnefni ok var kallaðr vegghamarr. Ásbjörn hafði verit fimm vetr í Fljótsdalsheraði, er þetta varð

til tíðinda, ok hafði lagið garða um tún manna ok svá merkigarða. Ásbjörn var svá mikill meistari á garðlag, at þat er til marks, at þeir garðar standa enn í Austfjörðum, er hann hefir reista. Þorbjörn hét maðr; hann var kallaðr kórekr. Hann bjó á þeim bæ í Fljótsdalsheraði, er heitir á Kóreksstöðum fyrir austan Lagarfljót. Þat er í Útmannasveit við en eystri fjöll. Þorbjörn átti sér konu; hon var skyld þeim Njarðvíkingum. Hann átti tvá sonu; hét annarr Gunnsteinn, enn Þorkell hinn yngri. Þorkell var þá átján vetra, enn Gunnsteinn hafði tvá vetr um tuttugu; þeir váru báðir miklir menn ok sterkir ok allvasklegir; enn Þorbjörn var nú gamlaðr mjök. Hafði Ásbjörn vegghamarr verit þar tvá vetr ok grætt fé nökkut, enn á hinum þriðja vetri gerir hann bú, því at hann átti ólétta konu; átti hann áðr nökkur börn. Hann leigir land þar fyrir utan læk, þat er þá heitir á Hlaupandastöðum, enn nú at Sandlæk. Hann var þar einn misseri, honum varð ilt til fjár ok varð óhægt búit. Á þessu sumri gerir Ásbjörn vegghamarr heimanferð sína út í Njarðvík á fund Ketils ok bað at hann mundi taka við honum til húskarls. Ketill spyrr, hví hann vill eigi búa lengr. Honum kvað þykkja óefnilegt, at búa við óhægindi mikil. Ketill svarar: „Of liðmargr þykki mér þú vera“. Ásbjörn kvaðst ekki fleirum leita

vistar enn sér einum; lézt annat mundu sjá fyrir liði sínu. Ketill spyrr, hvat hann ætlar at sjá fyrir liðinu. Hann kvaðst ætla at hlaupa burt frá — „ok hingat til þín, því at ek ætla at mér sé lítill ágangr veittr fyrir ríki þínu; mun ek konuna láta kjalast við börnin“. Ketill svarar: „Þat hafði ek oft ætlat, at taka við þér. Mun ek gera þér á kost; þú skalt gera garð ofan ór fjalli undan hömrum ok út í sjó; þetta skaltu vinna til tveggja missera vistar“. Ásbjörn kvaðst ætla, at hann mundi þetta fá fullvel unnit, — „munu vit þessu kaupa, enn þú skalt sitja fyrir, at eigi sé fylgt á mik ómegðinni“. Ketill játar þessu. Síðan gerir hann ferð sína upp yfir heiði, ferr eftir rekkjuklæðum sínum, enn þar hleypr hann frá liðinu ok skyldi af því heita á Hlaupandastöðum; þá tóku þeir á Kóreksstöðum við ómegð hans, enn mistu landsleigu sinnar við hann ok sátu fyrir öllum vandkvæðum. Ásbjörn tekr til garðlags út í Njarðvík ofan ór fjalli; hann vinnr mikil verk á um sumarit, enn ekki hefir hann venjubrigði í skapsmunum, því at öllum líkaði illa við hann nema Katli einum.

**15.** At sjau vikum sumars býr Þiðrandi heimanferð sína; hann ríðr við hinn sjaunda mann út með Lagarfljóti ok ofan eftir Hróarstungu ok þar yfir fljótit, er heitir at Bakkavaði, ríða út eftir heraði ok koma um kveldit á Kóreksstaði til Þorbjarnar. Þorbjörn gekk á

móti þeim Þiðranda, ok synir hans, með mikilli blíðu, ok bauð honum þar at vera svá lengi sem hann vildi. Hann var þar þessa nótt ok gera þeir til hans ágæta vel. Þeir bræðr báðu Þiðranda, at hann mundi vilja fara út til Njarðvíkr ok biðja Ketil, at hann léti lausan Ásbjörn, enn gildi þó sumarkaup, eða ella tæki hann við liði sínu. Þiðrandi kvaðst skyldr at leggja orð til — „enn eigi nenni ek at ráðast í meira, þar er Ketill er frændi minn til annarrar handar". Þeir segja, at þeim þætti þat várkunn. Eftir nóttina afliðna búast þeir til ferðar tuttugu saman; þeir ríða út yfir Ós ok ofan heiði, þar er heitir Gönguskarð, í víkina; var þá miðr aftann, er þeir kvámu í víkina. Þá var fátt manna heima; þá var eigi lokit heyverkum, enn þar var heyland mikit. Var mannfólk á verknaði, enn Ketill var einn heima karlmanna ok konur nökkurar. Ketill sat í skála. Nú var sagt í þann mund kæmi at honum skjálfti, sem jafnan var vant, at hann hrökk af fótum upp, svá at gnötraði í honum hver tönn; honum var ok svá hrollr sem vatni væri ausit milli skinns ok hörunds. Þá mælti hann við konu eina, at gera skyldi eld fyrir honum ok vildi hann bakast. Hon kastaði undir hann gæru einni. Ketill bakast við eldinn. Enn Þiðrandi ok hans menn ríða ofan eftir víkinni, ok er þeir koma á víkina mjök at bænum, þá sjá þeir, at maðr

var upp í hlíðinni at garðlagi; hann var í grám kyrtli; hann hafði knept upp blöðunum á axlir, enn lykkjurnar hengu niðr at hliðunum, ok í hvítum torfstakki yfir utan; hann hafði drepit á höfuð sér hetti. Þeir kenna þenna mann, at þar var Ásbjörn vegghamarr; hann kveðr þá ekki. Þeir ríða svá ofan með garðinum; mæltu hvárigir við aðra. Þá ríðr Gunnsteinn Kóreksson ofan at Þiðranda ok mælti: „Illvænlega lætr sjá maðr; muntu leyfa mér at ek taka geirnagla ór spjóti mínu ok taka af spjótit af skaftinu ok skjóta til hans ok vita, hversu hann verðr við". Þiðrandi mælti: „Gerðu þat eigi, því at þat er fornt mál, at oft hlýzt ilt af illum, ok vil ek eigi, at þú eigir við hann". Þá snýr hann í halaferðina ok af götunni; þá tekr hann ór geirnaglann ór spjótinu ok skaut til hans með hlátri miklum. Enn er Ásbjörn sér at spjótit ferr at honum, þá hleypr hann upp við; skotit kom í kyrtilsblaðit ok í lykkjuna ok svá út í blautan garðinn ok svá at hann fellr út af garðinum. Hann sprettr upp skjótt ok tekr spjótit ok kastar niðr, enn hann hleypr upp á garðinn ok þegar inn yfir. Hann tekr þegar skeið heim til bæjar. Enn þegar er hann kemr í túnit, þá hleypr hann í eldaskálann, þar er Ketill bakast; hann kastar sér upp í sætit gegnt eldinum. Ketill spyrr, hvat honum væri. Hann svarar: „Vant er at vita, hverjum vér

skulim fagna; ætlaða ek á vári, er ek réðumst hingat, at ek munda eigi barðr til meiðinga, eða með öllu til bana. Eru þeir komnir hér Kórekssynir; hefir Gunnsteinn skotit spjóti undir hönd mér ok kom út undir annarri. Nú ætlaða ek, at ek munda hafa heimsótt höfðingja, er þér eruð; enn ek sé, at enginn er í þér dugr, at þér rekið aldrigi várra harma, þó at oss sé skammir gervar". Ásbjörn hafði hátt raddarlag ok sárlegt andartak. Ketill hleypr upp við bræði mikla; hann þrífr ullskyrtu sína ok kemst í, enn áðr í brókum leista lausum; váru ilbönd undir neðan, *ok* höfðu menn þá línbrækr í þat mund. Ketill gengr þá þegjandi utar eftir eldhúsinu, svá at alla vega hraut eldrinn um hann. Hann gengr utar til lokrekkju þeirar er hann var vanr at sofa, tekr ofan hjálm ok setr á höfuð sér ok sverð í hönd sér, setr skjöld fyrir sik. Eftir þat snýr hann út með brugðit sverðit, enn kastar eftir umgerðinni. Enn í því er hann kom í tún, þá ríðr Þiðrandi í túnit ok hans menn. Ketill snýr þegar at Þiðranda ok höggr til hans með sverðinu. Þiðranda bar svá nær höggit, at hann sá eigi ráðrúm til at skjóta fyrir sik skildinum; hann kneppir sik aftr ór söðlinum ok kemr standandi niðr. Enn Ketill stöðvar ekki höggit at heldr. Þá riðu menn mjök í standsöðlum smeltum. Ketill höggr um endilangan söðulinn ok tekr í sundr bógana

báða ok hestinn undir söðlinum. Ketill höggr þegar annat sinn til Þiðranda. Hann kemr þá skildi fyrir sik. Ketill klýfr þá skjöldinn fyrir utan mundriða, svá at sverðit nam í vellinum stað. Konur þær er á bænum váru hlupu út þangat er menn váru á verki. Annarr bær stóð þá í víkinni, sá er at Virkihúsum heitir. Þangat hlupu sumar konur, því at þar váru enn karlar nökkurir. Fóru þeir þangat; þeir urðu alls tuttugu menn. Þiðrandi mælti við menn sína, at enginn skyldi bera vápn á Ketil — „enn ef nökkurr gerir öðruvís, enn ek mæli fyrir, þá mun ek bera vápn á hann, þó at hann sé af mínum mönnum". Eftir þetta biðr Þiðrandi Ketil frænda sinn allra safninga — „hefi ek hér aðrar viðtökur enn ek hugða til, ok ef nökkut er þat í vorðit várum ferðum, at yðr þykkir málþarfa, þá vil ek bótum upp halda, svá at þér þykki sæmd í. Nú meðr því, at þú vilt einskis mín orð meta, þá láttu mik njóta móður minnar enn systur þinnar, ok er meiri ábyrgðarhlutr at halda þessu fram, sem nú hefir þú upp tekit". Ketill þegir við ávalt, enn Þiðrandi biðr hann vægðar einart. *Þiðrandi* lætr sem enginn væri annarr, enn Ketill sækir hann í ákafa. Þiðrandi mælti: „Hví er nú eigi vel, at nú vinni maðr þat er má annat; enn enginn maðr skal bera vápn á Ketil, því at hann mun sefast brátt; enn eigi banna ek, at þér drepit

menn hans sem þér meguð". Þá gera þeir svá. Þá horfa þeir suðr eftir túninu. Tekr nú at líða aftanninn mjök, ok lægir sólina, enn hross þeira váru hér ok hvar, því at þar hleypr hverr af hestum sínum sem kominn var. Þá berr suðr eftir vellinum, alt til þess er þeir koma at læk þeim er fellr fyrir utan garð þann, sem gengr fyrir neðan hlaðit. Þá stingr Þiðrandi fram blóðreflinum ok hleypr öfugr yfir lækinn. Þá var höggvinn af Þiðranda skjöldrinn allr, svá at enginn sp*án*n var eftir, nema þat er mundriðanum fylgdi. Í þessu höggr Ketill til Þiðranda ok kemr á öxlina hægri ok leysir frá herðarblaðit, svá at inn sá í lungun. Þiðrandi hljóp þá ofan yfir lækinn, tekr sverðit hinni vinstri hendi ok höggr til Ketils ok í gegnum hann. Ketill fellr þá dauðr til jarðar; enn Þiðrandi gengr þá suðr yfir lækinn ok at þúfu þeiri er nú heitir Þiðrandaþúfa. Hann sezt þar niðr. Þá stóð ekki fleira manna upp enn þeir Kórekssynir, Þorkell ok Gunnsteinn. Allir váru fallnir aðrir menn Þiðranda. Þeir Kórekssynir settust þá niðr hjá honum á sína hönd hvárr; þeir váru þá móðir mjök. Menn Ketils styrmdu yfir honum ok huldu hræ hans. Eftir þat gengu þeir heim vígmóðir, ok þó margir sárir. Nú tekr Þiðrandi til orða við Gunnstein: „Hversu þykki þér at fara, hvat mun nú tjá at lasta þat er orðit er, enn farit hefir þess, at hér

megi þér sjá nú, hversu einræðit kann at gefast; enn ekki tjár nú at ávita þik. Enn hvat hefir þú sét til Ásbjarnar félaga þíns um aftan?" Gunnsteinn svarar: „Átt hefi ek annat verkefni enn hyggja at þeim skelmi". *Þiðrandi mælti:* „Ekki er mér þat þó, ek hefi ekki svá annríkt átt, at ek hafi eigi augu til sent, hvat hann hefir at hafzt. Þegar í kveld, er Ketill gekk út, ok menn drifu at honum, þá kom Ásbjörn út ok hafði hönd fyrir auga ok skygndi til hversu færi á milli vár. Enn nú hefir hann ekki farit hermannlega, ok þat hygg ek nú, at hann sé hér nú í vellinum fyrir utan lækinn; ætla ek at hann fletti mannnáinn einn". Gunnsteinn sér nú hvar hann er ok hleypr út yfir lækinn: hann hafði sverð í hendi ok höggr á hrygginn ok tekr hann í sundr í miðju. Eftir þetta gengr hann til sætis síns. Kona ein gengr út um kveldit. Þat var griðkona.

16. Gunnarr hét maðr. Hann var á vist með Katli. Hann var austmaðr ok hafði komit út um sumarit. Hann var háleyskr maðr at ætt, mikill maðr ok víglegr, ungr at aldri ok allvel mentr. Hann sat í útibúri fyrir ofan hús: þar var inni varningr hans. Ekki hafði hann verit við fund þenna, ok ekki hafði hann vitat til, at styrjöld sjá hefði verit. Konan hleypr til búrsins: þetta var vinnukona hans. Gunnarr

sat í dyrrum útibúrsins ok fiðraði örvar. Hon tekr til orða: „Satt er þat er mælt er, at eigi má mann sjá, hverr hverrgi er. Mundi Ketill eigi þat ætla at hausti, er hann bauð þér hingat, at honum mundi enginn brautargangr at þér verða, ef hann þyrfti nökkurs við, enn þú ert mannfýla því meiri, er þú liggr inni kyrr, sem hundr á hvelpum, þar sem húsbóndi þinn er lagðr við velli ok margir hans menn. Er hér kominn ófriðargangr ok hafa þeir vegit Ketil". Gunnarr hljóp upp við þessa tíðenda sögu ok þrífr boga í hönd sér, leggr ör á streng, er hann hafði nýgert. Hann gengr þá út ok mælti: „Hvárt eru þessir menn á burt farnir frá óverkum sínum, er þetta hafa gert?" Hon svarar: „Eigi er þat". „Hvar eru þeir nú þá?" „Þar eru þeir er eftir lifa fyrir sunnan lækinn á vellinum" Gunnarr mælti: „Hvar er hann Þiðrandi, ek vildi hann sjá?" „Þat ætla ek", sagði hon, „at hann siti á fuglþúfu milli þeira bræðra, Kórekssona". Gunnarr bendir nú bogann, ok var þat alt jafnskjótt, at strengrinn gall heima við bæinn ok Þiðrandi fell á bak aftr: kom örin fyrir brjóst Þiðranda ok út í millum herðanna. Gunnarr spurði, hvat manna sjá hefði verit. Hon svarar: „Þat var Þiðrandi Geitisson". „Seg allra kvenna örmust. Eigi fekk annan vinsælla né betr at sér. Hefi ek þeim manni bana unnit, er ek vildi sízt".

Þorkell Kóreksson spurði Gunnstein bróður sinn, hvárt hann væri mjök sárr. Gunnsteinn kvaðst hafa sár nökkur, — „enn hvat líðr þér, Þorkell“. „Ekki sár er skaðlegt á mér“. Þá mælti Þorkell: „Nú munu vit eigi þurfa Þiðranda at bíða, enda mun eigi ráð heim at leita til bæjarins. Eigi get ek at vit náum hestum okkrum; munu vit ok eigi vera mjúkir til göngu. Þeir hverfa skildi yfir Þiðranda þar á þúfunni, ganga síðan á burt, fara upp til götu, rétta leið upp í brekkur. Þeim fórst seint, því at náttmyrkr var á mikit. Þeir gengu til þess er þeir kómu at brekkum þeim, er neðstar váru í skarðinu. Þar var hvammr fyrir sunnan götur, ok heitir Kiðjahvammr. Á fellr ofan ór skarðinu ok ofan í hvamm; þar er mikill fors í; undir forsinum er hellir mikill. Í þeim helli eru menn oft á haustin, er á fjall er gengit. Þorkell mælti: „Förum vit til hellisins, því at mik gerir svá móðan, at ek má eigi lengra ganga“ Þeir fara til hellisins; er þar hlaðit grjóti fyrir framan. Gunnsteinn kastar sér niðr þegar, því at honum var heitt mjök; hann verpr af sér klæðum. Þorkell sprettir af sér belti sínu; eftir þat flettir hann af sér klæðum. Þá falla út iðrin. Hann sezt þá niðr, ok lét Þorkell þar líf sitt. Við þetta hafði hann gengit alt neðan ór Njarðvík. Nú er Gunnsteinn einn eftir hjá bróður sínum dauðum; hann var sárr mjök. Gunnsteinn sá þat af

sínu ráði, at ráðast á brott þaðan. Hann stendr þá upp ok er hann ætlar þaðan til göngu, þá var hann svá stirðr, at hann mátti hvárugan fót hræra yfir annan fram. Sezt hann þá niðr; verðr hann nú þar at vera, þó at honum þætti eigi gott. Þorbjörn kórekr lét illa í svefni þessa nátt. Enn er hann vaknar, þá ferr hann skundandi í klæði. Hann vekr upp smalamann, ok mælti, at hann mundi fara sendiför hans, — „vil ek at þú takir hesta tvá; vil ek at þú ríðir út til Óss ok ofan í Gönguskarð til hellis þess, er þér eruð vanir at hafa náttból um haustum, þá er þér gangið á fjall, ok vit við hvat þú verðr þar varr. Enn ef þú verðr við nökkur tíðendi varr, þá þigg ek, at ek fengi þat at vita“. Sauðamaðr ríðr ofan til Óss ok ofan í Gönguskarð; hann *lítr* til ferða, enn er hann kemr ofan í Kiðjahvamm, þar stígr hann af baki ok gengr upp undir forsinn; hann gengr inn í hellinn; þá var lýst af degi. Hann spurði, hvárt nökkut væri þar, þat sem honum mætti andsvar veita. Gunnsteinn segir til sín. Sauðamaðr spyrr tíðenda. Gunnsteinn segir slík sem orðin eru. Sauðamaðr spyrr, hvárt hann mundi færr með honum í burt. Gunnsteinn kvað eigi annat til þess. Hann vildi þá brátt út ganga, enn mátti eigi, nema hann styddist við axlir honum öðrum fæti. Hann kemr honum í söðul, ok berr at honum klæði ok býr um hann sem

honum þótti vænlegast, riðr nú upp yfir heiði ok kómu heim um hádegisskeið. Þá hafði Kórekr búit laug; tekr hann nú ok fægir sár Gunnsteins, ok veitir honum hægindi slík sem hann mátti.

17. Þessi tíðendi spurðust brátt, ok þótti mörgum mikil sem var. Hróari Tungu-goða fell þetta næst, svá at hann legst í rekkju af harmi ok deyr af helstríði. Eftir þenna fund kemr Þorkell fullspakr heim, því at hann hafði farit ofan í fjörðu eftir skreið. Hann kom þann dag heim, er fundrinn hafði verit áðr um nóttina. Þorkell fréttir fundinn ok at fallinn er faðir hans ok Þiðrandi. Haug verpr hann eftir Þiðranda frænda sinn, ok stendr hann þar á bakkanum ofan undan bænum. Hann færir í haug menn þá er fellu. Þorkell rak á burt austmanninn með miklum hrakningum, kvað hann þeim mikla skömm gert hafa, svá at eigi mundu menn bætr bíða, drepit þann mann, er aðrir væntu sér af hins mesta yndis. Gunnarr hvarf nú á burt ok spurðist ekki til hans.

Margir menn hörmuðu þessi tíðindi, er þeir spurðu, ok þótti þetta miklir atburðir. Bæði Þorkell Geitisson bróðir hans ok Bjarni Helgason frá Hofi í Vápnafirði, því at hann var náinn frændi Þiðranda, - - Helgi Ásbjarnarson átti Þórdísi toddu, systur Bjarna — svá þeir bræðr Þorvaldssynir Þiðranda sonar, Grímr ok Helgi; þeir váru allir í eftirleit við Gunnarr austmann

ok vildu allir Þiðranda hefna, enn til þessa manns spurðist aldri; var þat flestra ætlan, at hann mundi hafa hlaupit til fundar við aðra austmenn, þá er sátu búðsetu, þar er þeir höfðu skip uppi í víkum millum Njarðvíkr ok Borgarfjarðar fyrir handan Snotrunes. Þar sátu sautján austmenn, ok ætluðu menn af því, at hann mundi þangat vera farinn. Liðr nú á vetrinn, alt þar til at daga lengdi. Þá býr Þorkell Geitisson ferð sina norðan ór Krossavík með tíunda mann austr yfir heiði í herað. Hann ríðr upp eftir heraði fyrir austan fljót, alt þar til er hann kemr á Arneiðarstaði; hann fær þar góðar viðtökur af Droplaugu ok sonum hennar. Hann var þar um nóttina. Þá biðr hann þá bræðr, at þeir mundu fara með honum *út* til Njarðvíkr ok hitta Þorkel fullspak ok þaðan suðr í fjörðu — „vil ek vita, at ek komumst nökkut á sporð um þenna mann Gunnarr, er nú er kallaðr Þiðranda bani, er oss hefir mikla harmsök unnit; þetta er öllum oss mikil nauðsyn á, at geta hann afráðit“. Þeir bræðr ráðast nú til ferðar með Þorkeli, ok fara út eftir heraði; þeir kveðja upp einstaka menn ok verða þeir saman átján. Nú fara þeir ok koma um kveldit á Kóreksstaði til Þorbjarnar; þeim er þar boðit at vera ok þeir eru þar um nóttina. Þeir spyrja Gunnstein vandlega at þeim tíðindum, er gerzt höfðu um haustit í Njarðvík, enn Gunnsteinn

sagði greinilega frá ok þótti þó mikit fyrir at segja. Enn er þriðjungr lifði nætr, þá stendr Helgi Droplaugarson upp; var tunglskin mikit ok færðir góðar bæði um heruð og heiðar. Hann vekr þá förunauta sína. Þá gengr hann til Gunnsteins ok mælti við hann: „Þú munt vilja með oss, frændi, út í Njarðvík". Gunnsteinn svarar: „Fara skal ek, ef þér vilið".

18. Eftir þat ráðast þeir til ferðar, fara út fyrir neðan Sandbrekkur ok svá út til Óss, ok upp í heiði til Gönguskarðs, unz þeir koma svá upp, at ein brekka var eftir. Þar er hvammr fyrir utan göturnar, ok heitir Djúpihvammr; þar liggr leiðin um sumarit hit syðra, enn jafnan um vetrinn fara menn ofan eftir hvamminum þá er snjáva leggr. Helgi snýr nú af götunni ok sezt niðr. Hann biðr þá alla niðr setjast, ok skipar þeim í garða enn hlið í miðju, sem í húsgarði. Þorkell Geitisson mælti: „Hvat skal breytni sú, frændi?" Helgi svarar: „Ek þóttumst heyra mannamál upp í skarðit áðan. Nú skulu vér taka þessa menn höndum, hverir sem þeir eru." Ok er þeir höfðu nýsezt niðr, ríða þar at þeim fimm menn á broddstöfum. Þessir menn allir höfðu stálhúfur ok girðir sverðum. Þeir kendu þessa menn, at þar var Þorkell Ketilsson fullspakr neðan ór Njarðvík ok heimamenn hans. Helgi sprettr upp ok þeir allir, ok mælti at þeir skyldi hafa hendr á þeim.

Þeir gerðu svá. Helgi gekk at Þorkeli ok heilsar honum ok spyrr, hvert hann ætlar at fara. Þorkell kvaðst ætla at fara upp í herað ok heimta skuldir. „Hví segir þú svá óliklega, at þú munir fara at fjárreiðum í þetta mund misserа? Ok sé ek at ekki er þetta þitt erendi. Nú þykkist ek vita, hvárt þú ætlar, ok svá erendi þitt. Þat munda ek ætla, at þú mundir fara upp í Mjóvanes, á fund Helga Ásbjarnarsonar, ok selja honum í hendr Gunnar Þiðrandabana; mun þér þat þykkja líklegast, at hann muni geta haldit Gunnari fyrir mér; þú veizt at fátt er með okkr". Þorkell svarar: „Hví ætlar þú mér þann hlut, at ek muni þann mann halda, er oss hefir mesta skömm gert; munu þér þat spurt hafa, at ek rak hann í burt þegar hinn sama dag, er ek kom heim". „Ekki hirði ek, hvat þú segir til þess. Nú er þér skjótt til at kjósa um tvá kosti, hvárt þú vilt at ek drepi þik hér í Djúpahvammi, eða ella selir þú fram manninn". Þorkell kvaðst eigi mundu fyrir sjá um þenna mann. Helgi flettir þá Þorkel af vápnum ok klæðum ok alla hans félaga; þá lætr Helgi leggja þá niðr ok fær til jafnmarga menn at vinna á þeim. Helgi mælti: „Eigi er oss vant við þik, ef þú virðir einkis frændsemi við mik; nú skal ek eigi hlífast við þik". Nú sér Þorkell í hvert vandræði komit var ok mælti: „Fast gengr þú at flestu því er

þú vilt þér afskifti veita. Mér mun fara sem flestum, at ek mun kjósa at lifa, ef ek á kosti. Mun ek nú segja víst, at austmaðr er í minni varðveizlu. Hefi ek hann haldit í allan vetr, síðan er tíðindin gerðust; gerða ek þat til ólíkinda at kveðja hann á brott. Uppi í heiðinni, fyrir ofan bæinn í Njarðvík, gengr hjalli sunnan frá skarðinu út fyrir Skálanes. Enn á hjallanum gegnt bænum er hlaupin urðskriða ofan ór hryggnum á hjallann; þat grjót er mjök mosa vaxit ok geitaskófu. Þar á milli steinanna sló ek tjaldi á hausti, þá *er* ek rak hann á brottu: þat er járngrátt ok samlitt við grjótit; þar setti ek húðfat hans, ok bjó ek um sem ek kunna, ok þar hefir hann verit síðan“. Þá svarar Helgi: „Nú gerðir þú vel, er þú sagðir hit sanna til, eigi fyrir því, vissa ek áðr, at hann var í þinni varðveizlu; skal ek nú ok eigi gera þér til meins, enn þú munt nú eigi at sinni lauss verða, at svá búnu“. Þá mælti Helgi til Þorkels Geitissonar ok spurði: „Hvárt viltu nú heldr fara ofan yfir heiði ok leita austmanns, eða viltu sitja hjá Þorkeli nafna þínum ok gæta hans til hádegis“. Þorkell Geitisson svarar: „Ek vil vera hér eftir hjá nafna mínum ok gæta hans, því at vit erum ófráir Vápnfirðingarnir; mun hér lítils við þurfa, þykki mér meiri hamingjuraun eftir honum at leita. Treysti ek þér betr ok þinni giftu“. „Því bauð ek kjörs á“,

sagði Helgi, „at mér þykkir vel, at þú ráðir, enn vant er at sjá hverjum þess verðr auðit. Nú skal skifta liði í helminga. Munu vit bræðr fara ofan yfir heiði við tíunda mann ok vita, hvat ek komi áleiðis, enn þér félagar farið upp á Arneiðarstaði í kveld ok bíðit mín þar unz ek kem á morgun, nema ek finni eigi austmanninn, þá mun ek koma á hádegi. Þá skal drepa Þorkel fullspak, ef hann hefir logit, enn ef hann segir satt, þá má hann eigi at hafa, þó at hann seti undan. Enn ef ek kem eigi aftr fyrir hádegi, þá skaltu Þorkel láta fara hvert er hann vill, því at ratat mun ek þá hafa hæli austmannsins, hvert sem hann verðr fyrir höndum eða eigi". Nú skiljast þeir þar. Fara þeir Helgi ofan yfir heiði, enn Þorkell Geitisson sitr eftir hjá nafna sínum. Enn er þeir Helgi kómu upp í skarðit, þá lýsti af degi. Þá var bakki mikill til hafs; dregr upp skjótt á himininn ok tekr at drífa; fylgir vindr af landnorðri. Þeir sækja ofan í brekkurnar. Þá sjá þeir, hvar hjallinn gengr út eftir hlíðinni. Þá mælti Grímr Droplaugarson: „Vinnum vér eigi tvisvar hit sama, snúum vér nú hér út eftir hjallanum. Þeir fara nú eigi lengi, áðr enn þeir sjá urðina ok tjaldit svá. Þá var hálfljóst af degi. Í þenna tíma vaknar austmaðrinn í tjaldinu. Hann þarf at ganga örna sinna. Hann ríss upp í skyrtu ok línbrækr; hann kippir skóm á fætr sér, enn

kneppir eigi: ekki hafði hann yfir sér ok ekki í hendi. Ok er hann bregðr brókum sínum, þá heyrir hann mál suðr á hjallann frá sér. Þeir áttu þá skamt til tjaldsins. Hann sá, at þá var eigi ráð at snúa í tjaldit, er ófriðarmenn váru svá nær komnir. Hann snýr þá út eftir hjallanum, slíkt sem hann má fara. Þeir sjá nú manninn, ok þóttust í hendi hafa ráð hans ok ætluðu, at hann mundi skamt undan taka; eggjaði hverr annan, at eftir skyldi halda. Gunnarr hleypr nú slíkt sem fætr mega bera, svá at af liggia skórnir. Nú dregr þó í sundr með þeim meðan hann var ómóðr. Gunnarr hleypr ofan hjá skálanum ok út af lautinni; þá nemr hann staðar ok hnýtir línbrókina at beininu. Þá váru þeir komnir ofan hjá skálanum á völlinn. Þeir gera garð ofan at sjónum. Grímr var þar allra manna skjótastr. Hann hleypr þá fram frá liðinu ok at honum Gunnari ok ætlar at sæta áverkum við hann. Gunnarr sér þetta ok kastar sér á kaf. Hann drepr þegar vör undir sik. Grímr sér, at hann getr eigi með vápnum sótt hann ok skýtr eftir honum spjóti, ok kemr í ena vinstri hönd Gunnari. Hann tekr til ok kippir á burt, enn hann legst út á víkina. Þá var hvast mjök ok föll stór. Helgi kveðr nú við ok mælti: „Hvar vitið þér slíkan mann at áræði sem þennan, eða hverr er fús eftir honum at ráðast“. Enginn kvaðst til mundu

hætta. „Þess er ván“, sagði Helgi, „því at annathvárt mun einum endast eða öngum af váru liði. Enn sá mun eigi fara, því at mér þykkir landtakan óvísleg, þar er Gunnarr er á strönd fyrir, enda er eigi víst, hversu sundit tekst. Nú munu vér heldr ganga inn til nausta ok vita, ef vér fáum oss þar skip at róa eftir honum, þó at oss sé þat nökkuru seinna; enn þó skulu vér at hyggja jafnan, hvert hann legst“. Þeir Helgi gera nú svá sem hann mælti fyrir, enn Gunnarr legst yfir víkina ok kemr á land fyrir sunnan skriðurnar, er nú heitir Gunnarsdæld. Því hafa þeir menn saman jafnat, er hvárttveggja hafa komit ok kunnigt er um, at þat sé jafnlangt sund, er Gunnarr hefir lagizt yfir þvera Njarðvík, ok frá Naustadæli ok yfir til Vindgjár. Gunnarr hleypr þá upp á nesið Snotrunes. Hásetar Gunnars sátu öðrum megin nessins búðsetu. Hann leitar þangat til þeira. Þeir Droplaugarsynir róa yfir víkina ok koma litlu síðar á land enn Gunnarr. Þeir setja upp skipit ok ráðast til göngu ok sjá hvar Gunnarr ferr. Þeir herða nú eftir honum. Gunnarr hleypr inn í búðina. Þá sitja þeir at dagverði. Gunnarr bað þá ásjá, — „vilda ek, at þér verðizt með mér; munu vér þá eigi uppgefnir fyrir þeim er eftir sækja“. Þeir kváðust aldri munda gefa sik upp fyrir ógiftu hans. Hann gaf nafn víkinni, ok kendi við félaga sína, ok kallaði

Geitavík, ok svá heitir hon ávalt síðan. Ok er hann sér, at hann fær ekki af þeim, þá snýr hann brott ok upp á Snotrunes. Hann stefndi suðr til Borgarfjarðar með ekki meirum birgðum, enn áðr hafði hann. Þeir Droplaugarsynir sjá, at Gunnarr hleypr brott ór víkinni; koma þeir ekki þar; þeir hlaupa hit efra fyrir ofan búðirnar. Gunnarr tekr nú at hrymjast mjök á fótum, er hann hljóp berfættr um klakann, ok kuldi mikill; frjósa at honum línklæðin; dugði honum þat, at hann kostaði um ferðina slíkt er hann mátti; fekk honum því vermans. Nú dregr þó saman með þeim unz hann kom upp í ásinn; þá hallar brátt af suðr.

19. Sunnan undir hálsinum stendr bær, er heitir á Bakka. „Sá er næst", hyggja þeir. Þar bjó sá maðr er Sveinungr hét. Hann var kraftamaðr mikill ok átti einn son níu vetra gamlan, þá er þetta varð tíðinda. Ekki var þar fleira karla; váru þar *enn* konur nökkurrar. Sveinungr var einrænn maðr ok var mál manna at hann væri eigi allr þar sem hann var sénn; enn þó var hann góðr þá er hann vildi, enn gerði við fá eiga. Sveinungr var þennan dag farinn at torfi á þá leið sem Gunnarr var á för. Hann er þá at gera hlassit, er Gunnarr hleypr þar hjá; hann hafði þá borit í hripin, enn eigi hlaðit í milli. Gunnarr hleypr at Sveinungi ok mælti: „Bjargaðu mér". Sveinungr svarar:

„Hvers þarftu við?“ Gunnarr svarar: „Fjándmenn mínir hlaupa eftir mér ok vilja drepa mik, ef þeir ná mér“. Sveinungr spyrr, hverr hann væri. Hann svarar: „Ek heiti Gunnarr ok em ek kallaðr Þiðrandabani“. Sveinungr spurði: „Hverir hlaupa eftir þér?“ Gunnarr svarar: „Ek veit þat eigi víst, þó ætla ek at þeir sé Droplangarsynir“. „Þat er vel“, segir Sveinungr, „ok mun hér eigi at sökum at spyrja; er þat gott at vita, þó at þú fáir hegning fyrir þann glæp, er þú hefir unnit, drepit þann mann, er allir hugðu bezt til“. Gunnarr svarar: „Eigi dyl ek at verkit sé ilt orðit. Er ekki þörf at minnr. Er þat öllum boðit, at bjarga sér meðan hann má“. Sveinungr mælti: „Legstu niðr á milli hripanna, ef þú vilt, enn ekki mun þér þetta duga fyrir slíkum köppum sem eftir sækja“. Sveinungr steypir af sér kuflinum ok færir hann í. Gunnarr legst nú í sleðann milli hripanna, enn Sveinungr þrífr í tauma hestsins ok léttir eigi fyrr enn hann kemr heim á Bakka. Enn þá er Gunnarr lagðist niðr í sleðann, bar hann inn á milli þeirra. Váru þeir Droplaugarsynir þá vestan í hálsinum, enn torfin eru austan í hálsinum ok sáu þeir eigi fyrir því. Sveinungr ekr fyrir þver dyrr hlassinu. Sveinninn stóð í dyrum; hann var í hvítum stakki ok söluváðar brókum. Sveinungr mælti við sveininn: „Taktu staf þinn ok

hlaup suðr ok upp í fjall ok safna saman fé okkru, því at veðr gerir illilegt, ok rek í hús". Sveinninn mælti: „Fara mun ek inn í stofu ok taka hött minn ok vöttu". Sveinungr mælti: „Þá er vér várum ungir, þurftum vér hvárki hött né vöttu". Nú hleypr sveinninn slíkt er hann má, því at hann var hræddr við föður sinn. Sveinungr beitir hestinn frá hlassinu ok leiðir til brunns; lætr síðan inn í hús; eftir þat gengr hann heim. Hann leysir þá ór sleðanum reipin ok reisir hann við vegg upp. Í þessu bili koma þeir Droplaugarsynir þar í tún.

Sveinungr heilsar þeim glaðlega. Þeir tóku því vel. Hann spyrr, hversu af stæðist um ferðir þeira. Helgi spyrr, hvárt hann hefði nökkut manna sét hjá sér áðan. — „er þú ókst torfinu". „Engan sá ek nema sjálfan mik, enn heimill er greiði við ykkr, sá er þér vilið þiggja". Helgi kvaðst einkis við þurfa — „er dags mikit enn eftir; er mér miklu meiri forvitni á um þennan mann, er áðan hljóp um torfgrafirnar; þykki mér þat eigi vera mega, at þú sæir hann eigi". Sveinungr svarar: „Aldri veit ek, hvárt ek sá eigi áðan mann hlaupa fyrir ofan torfgrafirnar í ljósum klæðum ok sá hinn sami hleypr nú þar suðr í fjallit". Hann réttir til höndina ok vísar þeim til. Þeir sjá nú, hvar maðrinn hleypr; eggjar Helgi nú, at þeir skyldu leggja eftir manninum. Þeir

gera nú svá. Enn er hann hljóp í burt, þá hafði Sveinungr velt hlassinu inn í anddyrit; varð Gunnarr þá undir enn hripin á hann ofan. Þar lá hann þá er þeir kómu Droplaugarsynir, ok nú þegar er þeir váru burt, þá ryðr hann af honum torfinu. Hann tekr hníf ór skeiðum ok ristir af honum klæðin; eftir þat fylgir hann Gunnari í fjóshlöðuna; kemr honum á heystál upp. Eftir þat gengr Sveinungr inn ok hleðr upp torfinu. Droplaugarsynir gengu suðr yfir Brunnlækjar brunna, – þat er á sunnanverðum vellinum. – Þá stingr Helgi við fótum, nemr staðar ok mælti: „Þó ferr þessi maðr frálega, er áðr er nýkominn af sundi, er hér hleypr í fjallinu. Þætti mér sem hann myndi nú mjök hrymdr, er hlaupit hefir berfættr á klaka í allan dag. Eða, hvárt æpir hann eigi at fé?“ Gunnsteinn Þorbjarnarson svarar: „Hvat muntu þat mega marka, má hann þat gera til ólíkinda“. Helgi svarar: „Eigi sýnist mér sjá maðr svá vera sem mér væri ván at Gunnarr mundi vera. Munu eigi þau töll í vera, at Sveinungr muni hafa sent heiman son sinn at safna heim fé, enn hann hafi borgit hinum ok komit undan. Nú skulu vér ekki elta þenna mann. Skal nú snúa af ok eiga við Sveinung bónda“. Þeir ganga nú heim til bæjarins, enn Sveinungr er inni í anddyri ok hleðr upp torfinu ok mælti: „Hví farið þér svá

hverft?“ Helgi svarar: „Því at þat er vár ætlan, at maðrinn muni vera í þinni varðveizlu, enn eigi í fjalli uppi, sem þú sagðir: Er þar son þinn“. Hann svarar: „Ek ætlaða, at hann mundi í stofu inni. Enn þó veit ek eigi, hversu ek munda nú fara at fela hann“. Helgi svarar: „Þú munt hafa látit hann í milli hripanna ok velt honum af sleðanum með torfinu; munu vit hafa gengið á hann. Nú viljum vér rannsaka hér“. Sveinungr svarar: „Hafi þér nú ríki til þess fyrir liðfjölda sakir, enn aldri hefi ek fyrr rannsakaðr verit sem þjófar“. Nú ganga þeir inn ok rannsaka hús öll ok finna hann eigi inni. Þá mælti Helgi: „Bæði skal koma í fjós ok hlöðu“. Sveinungr svarar: „Þat er víst, at þar sé austmaðrinn, því at hon baula er jafnan taðdrjúg“. Helgi svarar: „Aldri hirði ek um skrítyrði yður“. Sveinungr gengr til rúms síns ok tekr ofan sax eitt mikit. Þat var níu alna hátt. Hann festir þat á sik. Síðan gengr hann til fjóss ok lýkr upp fjósinu. Hann snýst þá við honum Helga ok mælti: „Vita munu þér, Helgi, hvat lög eru, því at þú ert lagamaðr mikill, at eigi skulu fleiri menn inn ganga enn fyrir eru. Nú em ek einn. Vil ek at einn yðarr gangi inn, því at ekki eru hér fleiri fylgsni, enn brátt munu ratast í básum mínum, ok stíum hjá geitfé mínu; vil ek ekki hark manna, at fé mitt skemmist af vápnum

þeira. Enn í hlöðu eru dregnar geilar umhverfum hey; myrkt er þar, því at ek lét þar inn færa mikit úthey á hausti, ok byrgja öll vindaugu með myki, enn frosin hart; láttu menn þína höggva upp vindaugu, enn Helgi gangi með mér ok rannsaki". Helgi svarar: „Svá skal vera, sem þú leggr ráð til". Hann gengr inn í fjósit. Helgi gengr með honum, enn þeir Grímr ok hans menn höggva upp vindaugun. Þeim gengr seint, því at hart var mjök frosit. Helgi rannsakar fjósit í básum ok stíum. Eftir þat ganga þeir til hlöðu. Þá mælti Sveinungr: „Nú skaltu standa í dyrum enn ek mun ganga í hlöðuna ok umhverfum heyit, ek mun ok ganga upp á heyit ok velta ofan af því er vott er. Er þér ófært at fara upp á heyit fyrr enn ek hefi hreinsat áðr, því at þú ert skartsmaðr mikill; vil ek eigi at saurgist klæði þín". Sveinungr ferr nú upp á heyit, leggr austmanninn niðr á stálit innanvert, vefr nú at honum flögu mikla ok þurra; veltir nú öllu saman út af stálinu ok lætr liggja flögurnar; ok er hann er at velta hinni fjórðu flögunni, þá hafa þeir uppi vindaugat ok er þá ljóst í hlöðinni. Þá sjá þeir, at þar eru öngvir afkymar. Þá stendr Sveinungr upp af heyinu ok mælti: „Nú hafi þér sét hér fylgsni öll. Er nú at leita í heyinu ok fletta öllu upp í flögum. Mun annathvárt, at hann mun eigi hér vera, eða í hey-

inu; ella farið til ok brjótið upp heyit, ef þér vilið, enn ek mun standa hjá" Helga fanst fátt um ok mælti: „Aldri nenni ek at brjóta þat upp, ætla ek, at eigi þurfi hér lengr at leita". Eftir þetta fara þeir burtu ok biðja ekki Sveinung vel lifa. Þaðan á leið fara þeir sem fyrr, ok er þeir koma suðr í garð, þá rekr sveinninn féð þar í móti þeim. Enn þegar þeir Droplaugarsynir eru á braut, þá tekr Sveinungr austmanninn á braut, enn lætr liggja flögurnar. Hann fylgir honum til sjávar ok til nausts síns. Þar var velt fyrir framan skip, er Sveinungr átti, er hann sótti sér farm á suðr í fjörðu um haustit; váru grafnir stafirnir niðr í jörð, enn nú fokinn undir snjór hit neðra með borðunum. Þar var ok inni sauðfé, er Sveinungr átti, þá er ilt var úti. Sveinungr tekr nú pál ok grefr nú inn undir skipsborðit. Hann lætr Gunnarr koma inn undir skipit. Síðan mokar hann at snjónum ok sauðamyki, enn í þessu kemr sveinninn með féð, ok reka inn ok byrgja aftr hrófit. Treðr féð svá, at ekki sér nývirki á. Sveinungr brokkar þar eftir, enn sveinninn ferr heim. Droplaugarsynir fara suðr frá garðinum. Þá stingr Helgi við fótum ok mælti: „Þar kemr at því sem mælt er, at eftir koma ósvinnum manni ráð í hug; þykki mér sem vér munum enn hafa vanleitat hér". Grímr svarar: „Hvar ætlar þú hann muni verit

hafa?“ „Flögur þrjár velti Sveinungr utar af heyinu; enn mér þótti sem sú fyrsta væri þyngst, enn þá var myrkt at, ok þá sagði hann at ek skyldi til ganga“. Grímr svarar: „Hví sáttu eigi þetta þá sem nú“. Helgi svarar: „Því mér þótti þá eigi jafnlíklegt sem nú. Nú skal þó aftr hverfa at sinni“, sagði Helgi. Sjá hlutr er sá, at mörgum aflar tvímælis á, at Helga muni áræðisfátt vorðit hafa, þá er þeir váru tveir inni, ok muni hann þá sét hafa, enn þótt eigi til ráðanda. Grímr mælti: „Skulu vér nú til fjóss ganga?“ „Nei“, sagði Helgi, „eigi get ek þess við þurfa“. Þeir ganga nú ofan eftir vellinum. Þá er Sveinungr kominn upp úr klifum neðan ór fjörunni; ok er þeir finnast, þá tekr Sveinungr til orða: „Enn stýrir þú hverft, Helgi“. Hann svarar: „Svá mun þér þat þykkja“. „Hvárt skal nú áleita“, sagði Sveinungr. Helgi svarar: „Mér þykkir vanleitat enn í þínum herbergjum“. Sveinungr svarar ok brosti at: „Hvar mun hann nú verit hafa?“ „Þat get ek at hann hafi verit í flögu þeiri er þú veltir fyrst; sú valt þunglegast“. Sveinungr svarar: „Þá munda ek nú ganga þangat ok grípa hann í klær þér“. Helgi svarar: „Hafa muntu slægð til þess at koma honum þaðan á braut ok í annat leyni“. Sveinungr mælti: „Hvárt viltu þá þess leita?“ Helgi svarar: „Nú vil ek leita hans niðri í naustahúsi þínu“.

Sveinungr mælti: „Þetta er miklu ráðlegast at þær gymlur muni hafa tekit við honum, því at þær hafa ráð undir hverju rifi. Ek á þar fé mart inni, ok hefi ek byrgt, enn ef þér látið hrótit upp, þá fel ek yðr alla ábyrgð á hendi, því at fénaðr er þegar í fjöru, enn nú er hafrænlegt; kann hér jafnan þat á at verða í Borgarfirði, at flæði féð, sem áðr er kunnugt. Nú ef þér látið út féð, enn eigi inn, þá ætla ek yðr at ábyrgjast bæði við hríðum ok sjávargangi. Ek á þar skip inni, er ek hvelfda at hausti. Þat eitt er þar fylgsni. Nú munu þér þat verða ór stað at færa, ef þér vilið þar rannsaka. Nú fel ek yðr þar slíka ábyrgð á hendi sem *á* öðru, ef nökkut verðr at“. Helgi svarar: „Þat hirði ek aldri; veit ek eigi, hvat at ábyrgð verðr. Alt skal nú leita af nýju“. Helgi gengr ofan í einstigið, enn Sveinungr sezt niðr á bakkanum ok horfir út á sjóinn. Þeir ganga nú at hrótinu ok hleypa út fénu. Þá mælti Helgi: „Jafnt er sem Sveinungr segir, ekki eru hér fylgsni fleiri enn undir skipinu. Skulu þér höggva hjá umhverfum skipit. Síðan skal færa ór stað skipit“. Þá mælti Grímr: „Eigi munu vér þess við þurfa, bróðir; stingum heldr spjótum várum inn undir borðin; munu vér þá varir verða ef nökkut verðr fyrir; enn vér megum ekki upp koma skipinu, nema vér brjótum nökkut at; er þat skaði mikill, ef brotinn verðr svá góðr gripr“.

Þá taka þeir þetta bragð; stanga spjótum alla vega undir skipit. Þá verðr Gunnarr varr við ok þrífr um innviðuna, enn spyrnir í bitana, ok þar hrökkvist hann at upp, enn þeir lögðu fyrir neðan. Fekk Gunnarr mikinn þykk af eins manns vápni; hann fekk lagit í gegnum lærit fyrir neðan þjóhnappana. Þetta var mikit sár. Við þenna áverka brá Gunnarr sér ekki, ok ekki fann sá er helt annat enn hann hefði stungit í snjóinn. Ok er þeir höfðu leitat sem þeir vildu, þá ráðast þeir á burt, ganga ór naustinu ok láta eigi féð inn. Þeir ganga upp einstigit. Sitr Sveinungr þar á bakkanum. Hann mælti ekki orð við þá. Sveinungr var þústinn mjök ok litverpr; stundum var hann bleikr sem bast, enn stundum svartr sem jörð; nær horfðu fram öll hárin eftir hans haus. Þeir þóttust þá mega sjá, at honum var mikit í skapi, ok áttu þar ekki við hann, því at þeir höfðu þat fyrir satt, at þá mundi Sveinungr hafa trylzt at þeim, ef þeir hefði austmanninum náð. Eftir þat fara þeir Droplaugarsynir á burt, enn Sveinungr vitjar austmannsins ok færir hann heim á því kveldi í sín herbergi ok bindr sár hans. Eftir þat færir hann Gunnarr í jarðhús, er hann átti; þat var eigi heima á bænum. Þeir heldu suðr með hlíðinni ok stefndu suðr til Dysjarmýrar; kómu þar svá at liðit var dagsetr. Þar bjó sá maðr, er Gunnsteinn hét; hann var goði

